# Nockrar
# Tilravner
giørdar med nockrar
# Sád = tegunder
og
# Pløntur
hentugar til fædu
og
annarar nytsamlegrar brwkunar,
sem med ábata kunna á Islande
ad ræktaz.

- - - - *laudato ingentia rura*
*Exiguum colito.* - - - VIRG.

Þrikt í Hrappsey
af Gudmunde Olafssyne 1779.

# Konunginum
## og
# Födurlandinu.

## Góodfús Lesare.

Þesse bæklingr, sem her kemr her þricktr fyrer sióner, var skrifadr í fyrra sumar og sendr til þess Kongl. Landhwsholdnings Selskaps i Kaupenhafn, og nú, epter þess sama tilmælum, útlagdr á Islendsku og þricktr. Eg hefer Utleggingunna lagad

 epter

epter þvi fyrsta, sem á Dønsku var skrifad, og hefr hún þvi sumstadar ei ordед so vidkunnanleg, þvi eg vilde avngvu ummbreita. Hún hefr og sumstadar orded óskilianleg, þvi enn nú vantar oß hentug ord til þessara hluta, og þav, sem af ødrum eru brúkud, eru þó ei orden algeng. Eg var ogso í þvi fyrsta fáordr og tæpte einasta á hlutunum, sem var nóg til ad láta mína meining í lióse, þeim sem ádr skildu og vissu hvad Kálgards- og Akur-yrkia útheimter; enn þad sem þessum háupplystu mønnum var i stuttu mále skilianlegt, mátte þó vera óskilianlegt fyrer Almúga her hiá oß, hvorium þesse Bæklingr er þó til gagnsmuna á prent látinn útgánga. Þar fyrer hefr þad Kongl. Lands-

húss-

hwsholdnings Selskap tilmælz ad eg útlegde blutina greinelegar, sem eg hefer nú ogso giørt; þó hefer eg orded sumt af þvi sem vidbætt er ad skrifa epter ødrum, þar sem mínar egen tilravner hafa ei tilbrocked. Eg hefer í Inngánginum tilkynt, ad þetta er skrifad epter mínu áſigkomulage med afstødu, jardlage og sólarhita, og má þvi ei dæmaz ødruvis edr epter ødru betra og avdveldara áſigkomulage. Þetta litla skrif hefr þvi til vegar komed, ad háttnefndt Kongl. Landhwsholdnings Selskap hefr þeim Lavnum heited, sem afla her í lande Kálróta; og med þvi eg veit ei til ad þad se her almennelega vil kynna gefid, læt eg þad her á epter fylgia áſamt ødru, sem al-

 mennt

menningr getr lavn fyrer fenged.

Búdardal
d. 7. Decembr.
1778

M. Ketilson.

# Pad Kongl. Landhwsholdnings Selskap

heiter Lavnum

1.) Peim, sem afleida Vatnd frá Akre, Enge, Myrum, Vegum etc.

Peim sem mest þar ad giorer, Selskapsins stærre silfr Medalliu edr = = 20. Rdr.

Peim sem er þar næst 10.

Peim minsta = 5.

Pessara lavna skal beidaz innann Decembr. Mánadar útgángs 1780.

I Attestunum á greinelega um ad geta hvad lánger, breider og diúper skurdernir eru, so út mege reikna hvad miked vatn þeir taka og so hvad stórt land þad er, sem

med

med þessu móte fríaz frá vatne.

2.) Fyrer Steingerde er aptr somu launum heited og 1776, og med somu skilmálum og þá var med þriktu Placate frá Hrappsey til kynnt; enn Launanna skal beidaz innann Decembr. mánadar útgángs 1780.

3.) Fyrer Jardepla afla alt eins og 1776 er í áminstu Placate tilkynna gefed. Þó þeir sem hafa þar fyrer einusinne laun fenged, hafa þeirra ei optar ad vænta. Launanna á ad beidaz innann December Mánadar útgángs 1779.

4.) Þeim, er í Íslande annadhvert siálfer med kroptugre Undervísun, innlendra Jardepla utdeilíngu til vorsædes edr fræsafne af hinum somu, edr uppá nockurn annann hátt oflugast styrker eplanna tíngun þar á lande, er launum

heited

hélted eins og ámińst Placat 1776 umgetr. Launin eru útsett fyrer þad þriú ár 1780.=81 og 82. Þá, þeir sem vilia launanna æskia, skulu þad giort hafa innán hvors eptersylgiande árs útgángs.

5.) Þeim á Islande, sem ár 1779 aflar mest af þeim bestu og stædstu Kálrótum ecke minna enn

| | | |
|---|---|---|
| 10. tunnur | = | 12. Rdr. |
| 8. | = | 10. |
| 6. | = | 8. |
| 4. | = | 6. |
| 3. | = | 5. |
| 2. | = | 4. |

Bændafólk kann ad vænta launa fyrer einhveria af þessum 6. greinum; enn þeir sem eru af odru stande einasta fyrer einhveria af þeim 3. fyrstu.

Trúanleg Atteſt um hlutarins sannleika, sem undereins vitne ad þad alt se eins mans afle, sem hann tilseger, skulu innsendaz innan þeß 31. Decembr. 1780.

# Underbwniingr.

§. 1.

Þad mætte ſȳnaz ſervitſka ad kalla þad lucku fyrer einn, ſem vill ſkrifa og underviſa um̃ Jardarinnar brúkun, (og eg hafde nærre ſagt um̃ **nockud**, hvad ſem þad og er,) ad hann hefde ſína kunnáttu af egen Leſtre, egen Epterþánka og egen Reynſlu, og ecke af Barnsvana edr annarra munnlegre og mindugre Underviſun; þvi madr má þó medkenna ad einn hlutur lærez fliótar af úngdóms vana og munnlegre Underviſun enn annars; og madr mætte þá mikels íſakna, ef hann eckert viſſe utan þad ſem

A hañ

hann hefde lært af siálfum sier. Þetta á ei heldr so ad skilia, ad þad se best ad læra eckert, utan af siálfum ser; þvi þá lærde madr nær þvi eckert: nei! her er sú meining og tilætlan, ad madr skule fyrst vera uppfræddr í þeim almennelegu sannindum so vel, ad hann gete sídan med nytseme lésed og yfervegad þad, sem adrer hafa reynt og rannsakad. Ecke heldr er her med meint, ad aungvan vana og minduga undervísun þurfe, og ad þetta hvorutveggia se óuavdsynlegt; enn þó fylger þar af ecke ad úngdóms vane og mindug undervísun seu þav bestu medol, þó þav seu navdsynleg; þvi þav leyfa þó epter hiá flestum ef ei ollum, Hleypedóma, og hindra tækefæred til betre epterþánka, so ad þeir lærdustu og vísustu menn hafa her af haft óhentugleika. Já! þar þurfte eitt serlegt guddómlegt dásemdarverk til ad fría þann lærda Pál frá sínum Hleypedómum og uppvekia hann til stærre epterþánka og hvad kunne þó vera liósara, en þav sanninde þeirra christelegu trúarbragda, sem hann í fyrstunne neitade og ofsókte? Og sá sem vilde og giæte

boreð

hored hvorutveggia saman, han munde kannske medkenna, ad Hleypedómar hefdu ei giort minne ólucku í heiminum enn Vanvitska. Af þessum meiníngum edr hleypedómum, sem menn hafa fenged og giørdt fyrerfram̃, hefr þad komed ad marger, ef ei flester nytsamleger hluter, og serdeiles þeirra um̃bót er heldr uppfunden af hendíngu enn epterþánka; og í avngum hlut ærla eg ad manneskian forþiene varlegre og vægdarsamare Dóm enn í þessum.

Þegar þetta heimfærez til Jardarbrúkunarinar, þá mun reynslan neyda hvørn einn til ad sanna þessa meiníng: þegar einn, sem epter vananum og þeirre undervísun, sem hann hefr þar med fenged og eg þore enn nú ad bæta vid, epter lærdóme, hefr valed jardlagid, tilbúed þad, og so sád og plantad, og þad vill þó ei luckaz, og hann þó finnr ecke nockurn annann greinarmun, enn þann sem kemr af því hvar stadrinn liggr, og sem hann getr ei vidgiort; (því Vestfirder verda þó alldrei flutter avstr í Rángár-

valla Sýsslu, ne Island úti Danmørk) so trúer hann strax og ályktar ad hlutrinn ecke luckez vegna þess, ad hann se móte náttúrunne og se þar fyrer ómogulegr. Þar ámóte sá sem giører nockra þvilíka tilraun epter þvi sem hann hefr lesed og íhugad, og þó hlutrinn í fyrstu luckez hønum ecke, þá verdr hann ei þar fyrer vonarlaus, þvi hann reynger sína egen tilraun ad hann hafe rett ad fared: og ef honum so um síder luckaz þad, þá tekr þad frá honum alla vantrú og efa, hvad sem hvor seger og þar fyrer utan hefr hañ af sinne margfaldre tilraun komez uppá margt miked nytsamlegt og sem hañ fiñr ecke i munnlegre edr skriflegre undervísun, og sem kannske er miked ólíkt ef ei gagnstædt þvi, sem kendt og brúkad er í ødrum løndum. Þetta hefr vor egen reynsla her í Islande stadfest, hvar um eg vil her ei meira tala. (Siá Formálañ til Sál. Vice-Løgm. **E. Olafssonar** Maturtabókar.)

Auk als þessa er þad ogso athugande, ad sá sem af egen lestre og Epterþánka tekr

tekr ser nockud fyrer, hann same má siálfr giora þad, ef ecke med sínum eg⸗en hondum, þá þó samt med egen aug⸗um og túngu, og hlýtr ad reida sig all⸗eina uppá siálfann sig. Enn þar sem einn hlutr giorez epter vana, þar reid⸗er madr sig alt ofopt og altofmiked uppá adra, og soddan svíkr einatt.

§. 2.

Ecke sídr má þad sýnaz servitsku⸗legt ad kalla þad luckn, ad sá sem vill undervísa og skrifa um̃ Jardarinnar brúk⸗un, hafe giordt sínar tilrauner á óhent⸗ugum stad; þvi hægd og hentugleike kuña um̃ síder ad komaz so lángt og vera so stórar ad hlutrinn þurfe líted ómak og epterþánka. Þó einn giorde tilraun á so hentugum stad, sem, i tillite til lopts og jardar, er i Sellande, (soddan stad⸗er trúe eg og ad her í lande kunne nock⸗rer ad finnaz) og þó honum luckadez vel med sína tilraun, hvornen kynne hann þar af med vissu giora nockra álykt⸗un um̃ adra stade, sem í tillite til lopts og jardar, være óhentuger? edr fyrerskrifa

 Reg⸗

Reglur um̃ þá ſtade, hvar ſiálf náttur-
an ſynez ad ſtríđa mote tilravninne? Jú,
reglur kann hann ſkrifa: látum hann
philoſophera og ſpeculera og kenna ſo lenge
hann vill, þar af hafa menn mikeđ, og
eingenn vill laſta ſođdan, því þađ hefr
ogſo fært ſtóra nytſeme; enn menn vita
ogſo til þeß, ađ þeſſer Theoriſtar hafa
líteđ útrett, þá þeir hafa ſiálfer faređ ad
practiſera, nema þeir hafe láteđ reynſluna
forbetra og ſtađfeſta ſína Theoriam.

Sá er lyckulegr, ſem međ velgrund-
ađre Theoria getr haft eina iđuglega og
óbreitta Praxin. Og giøre hann þá ſín-
ar tilravner á óhentugum ſtađ, ſo kenn-
er hans egen mæđa honum ađ gefa þær
beſtu Reglur, og ađ hafa međlíđun međ
ođrum, ſem vanluckaz međ ſínar tilravner.

§. 3.

Eg hefe áſett ađ ſkrifa um̃ nockra
nytſamlega Averte, ſem eru framande í
Jſlande. Eg get í þeſſu tilfelle ei hróſ-
ađ mer af nockre ſtorre Theoria, jafnvel
ađ eg hafe avngva tilravn giordt utan
međ

med öllum mogulegum epterþánka og Yf-
ervegan. Eg hafde aldrei séd jordina til-
reidda til ad bera framande Avexte, og
aldrei hafde eg séd þá adferd sem þar við
er brúkud. Eitt einasta sinn hafde eg
séd Kál plantad. Eg veit þvi eckert af
þessare adferd, utan hvad eg hefe lesed
og epterþenkt, og so þad sem eg hefe lært
af egen reynslu, sem eg hefe af margre
og iduglegre tilraun fenged. Sá stadr
hvar eg hefe tilraunirnar giördt nú í 13
ár, epter ad eg hafde giördt þær á ød-
rum stad í 10. ár, er ad minne hyggiu
miked óhentugr: hann liggr nedst í einni
breidu og lágu dals mynne, sem snýr mót
útnordre og líka so hallaz þanneg, so
ad sólin skín miog so á ská á jordina. Í
mót avstre og landsudre eru há fioll, so
ad morgun sólin hefr litla verkun og fyrr
enn um Nónbil hafa hennar heitu geislar
ei þann fulla krapt. Þar ámóte þad
fiall, sem hindrar morgun sólarinnar fullu
verkun, friar mig þó opt frá kulda vind-
um og nordan nædingum, sem her ecke
so vel ná ser. Frá siónum er eg oflángt
til þeß ad eg hafe rett nót af þeim sudda,

 sem

sem þar af uppstígr, ei heldr ná til mín þeir þar frá tilbaka fallande sólar geislar, (v. Justi von die Flecken im Monde) og fiollin það kríngumliggiande eru ei heldr þeß háttar ad kaste þeim ofaní dals mynnid. Jord sú sem eg hefe, er avrblandin móaiord, sem útheimter miken Áburd og þó med varúd; þvi fáe hún miken áburd og góda eriun, verdr hún of lavs.

Nú vil eg. víst ecke segia ad alt þetta hafe vered lucka fyrer mig ad þvi leite, sem viddvíkr fyrerhøfn og kostnade; þvi eg trúe ad morg góð tilravn hafe þar fyrer misluckaz, og þesse óhægd hefr epter mínum efnum og kroptum kostad mig í meira lage, so ad eg veit ecke hvort eg skal heldr egna þad nockurskonar stodugløynde edr minne nátturlegre tilhnegíng, sem hefr miked ynde af jardaryrkiunne, ad eg hefe ei hætt þar med. Enn þad hefer eg þó þar med áunned ad þeir ávexter, sem eg hefe reynt med, og mer hafa luckaz, þá veit eg til vissu ad þeirra framtíngun er her møguleg og ad mín ad-

adferd skal næst gudshiálp í þeim flestu árum færa gódann ávoxt.

Þessa mína Medferd, sem eg hefe af ymislegre og margfaldre tilraun lært og valed, vil eg nú stuttlega útskrifa. Þad má aungvann undra edr óþægdar dóma orsaka ad eg met meira þá ávexte, sem adrer halda minna af; enn set þá sídar sem eru í meira afhalde, og sem eg annars og í ødru áſtande vilde siálfr meira meta; þvi eg skrifa epter minne egen reynslu og nærverande áſtande og vil nú í þetta sinn ecke framar fylgia þeim umm þetta efne fyrerskrifudu Lærdóms-reglum, heldr enn mínar egen Tilrauner leysa.

# I. Cap.

## Umm Kálrætur og adrar Rætur.

§. 1.

Af øllum framande ávoxtum, sem eg hefe reynt, hefr eingenn kostad mig minna enn Kálrætur, og af aungvum hefer eg haft meira gagn; so ad eg vil sanna þad

sem sá vpparlege Svenske Boye seger (Erfarne Landmand. C. 28. §. 2.) þó eg se laungt frá ad ná honum;" ad „ eingenn á ad hálda; gódr búmadr, sem „ ecke árlega aflar af þeim 50 edr „ 60 tunnir."

§. 2.

Sá meste vande, sem mer hefr reynz vid þenann Avoxt, er ad tilreida Jordina; þvi þessar Rætur þola ei hid-stiga jord, þvi þá vaxa þær uppí Nióla og Rótin verdr lítel. Þær villa ad sonnu diúpa og feita jord; enn hún á ad vera úrtæmd af ollum ósmiklum gród-sku krapte. Þær hafa hiá mer best vaxed í gamallre veggia Mold blandadre med gamalle kúa myke, sem árinu ádr hefr bored jardeple. Ad voriinu skulu þær sáaz í nockud mogrum reit í Kálgardin-um og sídan útplantaz í þessa ádr áminsta Jord um Jónsmessu og sídan upptakaz um og epter Mikelsmessu epter þvi sem vedráttinne hagar, og hafa þær þá hiá mer veged 1. edr 2. pund. Eg er annars altíd vanur ad stýfa nock-

ud

ud líted nedan af hvörre Rót, þá eg dreg hana upp úr Sádreitinum og ádr enn hún er plontud. Adrer hafa til forna vel skiled hvada nytseme þetta giorer vid flesta jardar-ávexte sem ega ad plantaz. (Siá þá Engelsku á Þydsku útlagda Allgemeine Haushaltungs und Landwissenschaft. 6. B. 2 og 48. Cap.) Þó geng eg her í einn medalveg, so ad þar sem jordin er feit og hidsug, þá giore eg líted af þessu; enn þar sem jordin er nockud mögur og útsúgud, þá ecke einasta stýfe eg nedan af Rótunum, þá þær eru plantadar, heldr og piakka sundr moldina í kríngum þær 2. edr 3. medan þær eru ad vaxa.

§. 3

Þegar eg get þvi vidkomed, læt eg uppgrafa jordina 1½ edr 2. álna diúpt, og umbilta henne so ad þad efsta verde nedst: Þetta læt eg giora þremr edr fiórum vikum ádr enn Kálid er plantad, so ad jordin fáe tíma til ad þiettaz aptr saman. Se jordunne ei umbillt fyrr enn skommu áðr enn Kálid er plantad, þá

tramp-

tranipaz, þegar plantad er, þad effta lag ofþett saman og þad sem þar er under, yrde oflavst; þvi eg hefe epter þvi tekid ad jardarinnar þettleike og gisleike verdr ad vera med rettum máta, so ad hún nockurnvegen þett falle vid ræturnar.

Komez eg ei til ad úppgrafa jerdina so diúpt, sem ádr er sagt, læt eg mer duga ad um̃bilta henne til tveggia edr þriggia qvartera dýptar. Epter þá fyrstu adferd hefer eg fenged þær vænstu rætur; eg hefe ogso haft sæmelega luckn med þeirri sidare, serdeiles þá þad hefr vered sú jord, sem árinu ádr hefr bored jardeple.

Hvad adra medferd á þessum Kálrótum áhrærer, þá er hún hin sama og med annad kál; og med ad vatna þeim, hefer eg ei miked haft; þvi mer virdez ad sá vokve sem nærer Plonturnar, kome mestr ad nedanverdu, ogso igegnum blodin ad ofanverdu; enn þad vatn sem helt er yfer jordina nær sialdan nidr til þeirra rótaránga, sem diúpt standa.

§. 4

## §. 4.

Kálrætur eru í mørgu fremre enn adrer Kálgardsz og jafnvel Akúrsz-Avext-er: øll þesse Planta er nytsamleg, bæde sá partr hennar sem stendr uppúr Jordunne, edr blødin; enn þó er þad, sem er nidr í Jordunne edr rótin allranytsamleguſt. Þesse ávoxtr er ecke kulvís edr vegna frosta miøg vandhæfr: se til hanns sád innlendsku fræe, sem eg hefe alltíd lagt mig eptær, þá þoler hann þá hordnustu og kølduſtu vorvedrátt. Vetrarfrost og snióar skada ræturnar als ecke, og so lenge madr getr nád þeim uppúr Jordiñe fyrer klacka, eru þær gódar, og þær sem epter verda og ecke náz, lifna aptr upp ad vorinu og bera fræ; þó er betra þá snjór liggr yfer þeim uñ vetrinn. Þegar sá íslendske Bónde yrde ad tapa bæde Kále og Korne; hinu af þvi hann hefr ei efne til ad byggia ser hús til ad geyma kálid í, og þessu af þvi hann getr ei þurkad þad; þá getr hann þo altíd grafed ser holu ofaní jordina til ad geyma sínar kálrætur parí; so þó ad Korn annars og í odru ástande se fremur, þó samt

vegna

vegna þessa ásigkomulags og epter voru nú verande tilstande, held eg þó meira af þessum Nótum.

Onnur kríngumstæda, er á vel heima hiá oss, sem høfum slæma edr avngva garda og girdíngar, enn lifande peníng miog siálfrádan, er þesse, ad þá Hestar edr Kýr edr Savdfe hefr á litlum tíma spillt øllu því kále og því korne, sem hefr vaxed, so þó þetta kynne ad henda sig, sem avdveldlega kann til ad vilia hiá oss, hvar allar skepnur gánga alt sumarid fyrer utan hús og hirder, þá halda menn þó sínum kálrótum, þó annar ávøxtr kynne med søgdu móte fyrer peníngsins yfergáng ad ónýtaz. Enn nú má telia Kálrótunum þetta til gildes: ad þegar adrer ávexter taka upp miked af þeim áburde, sem ver þó ei megum missa frá vorum túnum, þá taka kálræturnar þar ámóte líted upp af honum ad því leite sem þær eru gagnsamar og ábata miklar í búskapnum, og má þad med rettu kalla hinn mesta ábata, þá einn hlutr

kostar

kostar miked, enn er þó til stórra nytia.

§. 5.

Kálrætur eru miked gagnlegar til fædu fyrer menn og málleysínga. Hvad þad fyrsta áhrærer, þá, med þvi ad fátt enn þá af fólke voru feller sig vid kálmat, þá þiker þvi þad þó best, þegar rætturnar eru saxadar saman med kálblødunum, hvar af þá er soden gravtr, sem er bæde hollr og nærande, og miked þægelegr fyrer þá sem hafa fenged gódan smeck á kálmete. Smásaxadar kálrætur eru gódar í súppur í stadin fyrer grión, og líka má giora af þeim gravt og velling, sem ecke skal miked eptergefa þeim, sem giordr er úr Hrísgrionum. Og ad eg sleppe ødrum kræsnare matar tilbúnínge af þeim og so Brennevíns brendslu, sem eg veit ei af ad segia, þá má giora af þessum kálrótum miked gott bravd, med somu adferd og Hr. Koſſoed Trøjel hefr fyrerskrifad um Jardeple, hvor Bækslíngr her í lande hefr vered gefens útdeildr. Þó verdr ad ætla soddan bravde

lengre tíma til ad láta gánga í þvi: og þegar þvi er ætladr mátulegr tímen og deiged so vel hnodad, þá, þó þessar rætur seu nockud fastar og lángar í ser, þá ser þó bravdid út eins og þad være giørdt af eintómu Rúgmele. Og þegar nockud af Hvannarót er saxad saman vid kálræturnar og þetta sax sídan soded og med Meele blandad sett í velgin til ígángs, þá verdr sá súre smeckr á bravdinu miklu þægelegastr. Eñ med þvi ver brúkum lited bravd í vorum búskap, so er best ad brúka þessar rætur til gravta, sem eru miklu almeñare; og af egen reynslu þore eg ad segia, ad sá sem fyrst hefr vaned fólk sitt á kálmat, hann getr med kálrótunum sparad þridiúng ef ei helmíng af þvi mele, sem hann annars þyrfte ad kavpa til bús síns.

## §. 6.

Til fódurs fyrer lifande Peníng eru Kálrætur ei sídur þarflegar og þienlegar: Hænsn þrífaz vel af þeim og þegar þav fá þar med Krækeberialíng,

edr

edr Sortulkng saxad, edr annad sem er alltíd grænt, sem opt má í þídum út-vega á vetr, þá hafa þad eins gott af því, eins og því besta korne edr malte. Ander, sem annars ecke eru matvandar, verda af þessum rótum vel feitar, og sama má vera um Svín, sem eg hefe þó ei reynt. Sá sem hefde so miked af Kálrótum ad hann giæte þar med fódrad kyr sínar, þann niunde aldrei vanta nóga miólk og góda. Þad er alment hiá oß, ad þá kýr hafa nýbored, verda þær siúkar og fá heyleida; eg hefe þá gefed þeim kálrætur og hefr þeim strax batnad, og er þá þó allra-best ad skera ræturnar í asfavng strengsle, væta strengslin í vatne og dreisa yfer Kúmene, þá kýrnar þar á epter miólka miklu betr. Eg hefe og aled ær til skurdar á þessum rótum, sem eta þær miked grádugt og verda vel feitar, þá eg ogso þar med brúkade blódtøku, og furdade mig hvorsu blódid á stuttum tíma miste sinn dimravda lit og vard liósara epter því sem kindin vard feitare. Eg er viß um ad med sama móte má

feita navt, þó eg hafe þad ei enn nú reynt.

§. 7.

Menn skulu varla kunna ad segia ødrum ávoxtum meira til gildes. Þegar þessar Rætur eru uppteknar á Haustin og blødin eru afskorin, er best ad sníða af þeim alla ángana, sem eru góder fyrer hænsn og ander; enn stóru ræturnar skulu þvoz og líted vindþurkaz, og síðan leggiaz nidr í eina grøf, og grandar þeim hvørke myß ne frost, ne rake, sem er so skadlegt fyrer korn og jardeple.

§. 8,

Lángar hvítar Róur og hnøttóttar Mai-Róur, hefer eg reynt og med gódre lucku gagn af haft; enn þær þola ei feitare jørd, heldr enn kálrætur, og eru þó hvørge nærre so gagnsamar. Gular rætur og Pastínak rætur og so Markiskar Róur þola feitare jørd, og þessar hinar síðstu hafa veged hiá mer 1 eda 2 merkr; enn þær hafa þá og so tapad miklu af sínum góða smeck og hafa orded holar og gisnar innaní, eg

hefe

hefe þarfyrer ei giørt mer mrira ómak fyrer þeim, ne heldr fyrer Redickum og Radísum, Ravdum Bedium, Piparrót, Lavk &c. enn handa siálfum mer og til míns egen epterlætes. Enn med því øll þesse róta kyn hafa liúflega hiá mer vaxed, serdeiles Piparrot og Ravdar Bediur, og hefer eg avngva adra adferd vid þav brúkad enn þá, sem er fyrerskrifud í Donskum og Svendskum Urtagards bókum. Ver høfum þar um tvo Urtagards Bæklínga á Islendsku preutada og gefens útdeilda.

## §. 9.

Hvanna-rótinn er eingenn framande Avoxtr her í Lande; enn hún er þó framande í vorum Urtagørdum. Sá sem hefde nógu stórt Rúm umgirdt, hañ giæte ræktad þessa Rót ser til stórra Nytia; því hún, eins og adrer innlendsker ávexter, lætr sig avdveldlega útplanta og vex úrtøku vel í ræktadre jord. Fólke þikia þessar rætur miked gódar, og sumstadar í landinu eru þær samandregnar til vetrar forda og etnar hráar, í stadin

er annann mát. (Siá Hr. E. Olafssonar Reisu-book §. 872. 873.)

## Vidbæter.

§. 10.

Sá Svenske Boye seger ad Kálrætur vare best í diúpre og feitre jord, sem í fyrstunne þarf nockurn áburd, enn sídan segez hann ei annad ábera enn Spándyngiu, þad eru fúner jardar ávexter og þeß kyns, og være gott ad nýta til þeß þann rudda, sem vída verdur epter á vorum og annad þvilíkt. Ad havstinu, þá búed er ad upptaka kálræturnar, segez hann bæla þar á savdse sitt í viku. Þetta giætum ver ogso eptergiordt og brúkad sodan kálróta garda fyrer Trádser, handa fenu ad liggia inní.

§. 11.

Pad hálda marger gott og naudsynlegt ad skera grasid ofanaf Róum og Rotum, so nær sem flugurs breidd frá rofkninum og þad jafnvel tvisvar edr þrisvar á sumre, þvi annars, segia þeir, ad aldrei nid vare uppí Rióla og rótin trenez. Eg hese

hefr þetta siálfr nockrum sinnum reynt, og fundéd: þad ad sönnu, ad þesse adferd hefr sína verkun í þvi, ad nióllinn verþa ecke, enn hitt hefr mer og reynz, ad þad kipper vexte úr rótinne, sem liggr vaxtar- og líf-lítel í jordinne þar til blodin vaxa aptr, so þad sem madr vinnur á þá einu sídu, tapar madr á hina adra. Þesse mín egen reynsla er ogso samqvæm lærdra og reyndra manna fyrerskript, sem segia ad blodin seu ómissande fyrer, hvorn jardar ávoxt og vinne honum þad sama gagn, sem lúngun lifande skepnum. Þad er óefad, ad plonturnar þurfa ei sídr ad útdampa sínum vokva, skule þær líf og heilbrigde hafa, heldur enn lifande skepnur, og þesse útdempun edr ómerkianlege svite, skedr í gegnum blodin. Allr meire svite, sem grasid verdr í miklum hitum ad þola, er þvi ad sinn leite eins óhollr og lifande skepnum heilbrigdum; þvi þá útdampaz, ecke einasta, sá yferfliótanlege vokve, heldr þar med og um leid misseż, miked af nærings- ar saftinne; enn ad skera blodin af, er ad gánga á mote Náttúrunne, sem víst hefr þau ei til forgefens plontunum gefed.

 §. 12

§. 12.

Eins og þar eru tvennslags holt á húd og lúngum lifande skiepna, so er þvi eins vared á jardar ávoxtum. Þær einu holt eru til ad útdampa þann ofmikla vokva, sem nú strox var umrædt; hinar holurnar eru til þeß, ad ávoxtrinn dregr ad ser ígegnum þær, vokvann af loptinu ogso regne og vætu, sem yfer þær dreifez, og þetta skedr eins ígegnum blodin, og nockrer halda, ecke án orsaka, ad jardar ávexter hafe her af ecke minna lff og voxt, enn af þvi, sem þær draga til sín gegnum ræturnar; enn hvorugt má annars án vera, hvorke blod ne rætr. Tilgángr þessa Bæklíngs leyfer ei her umm lángordum ad vera; enn þetta má finna vel og skilianlega útmálad i Allgemeine Haushaltungs und Landwissenschaft 6. B. 4. 5. C.

§. 13.

Eg held þvi ríde mest á þvi ad tilbúa jordina og tempra mátulega, hvar umm eg hefe ádr geted í §. 2. og þó þad tilvili ad nockrar Kálrætur vaxe uppi niola,

þá

þá eru þær þar fyrer ei ónytar, heldr allþienlegt fódr fyrer Navt- og savdpeníng, og sama er um grænkáls og snidkáls stofna, þá skal ei ónytia, heldr til fódurs brúka.

§. 14.

Eg gat um í 2. §. ad eg lete skýra nedan af Kálrotunum: þad hefr þá nytseme, ad í kríngum endann á þeirre afstyfdu rót, vaxa marger smá ángar, sem eru þá eins marger munnar ígegnum hvoria ad plantan tekr næríngana til sín, og þesse er mest nytseme ad þvi, ad piacka í kríngum ræturnar; þvi þar vid afstíngaz ytstu endarner á sídu rótunum og vaxa aptr út í kríngum þá afstúngnu enda marger smá-ángar. Her af er avdskiled ad þeß yngre og miñe sem platan er, þvi nær henne má piacka og aldrei nær enn þverhandar frá rótinne, enn þeß meira sem rótin vex, þvi fiær verdr ad piacka, og má þetta giora tvisvar edr þrisvar á sumre, og hefr þad alla adra verkun og nytseme heldr enn þá blodin erú afskorin.

§. 15.

Eg hefe nú taled þá einu nytseme, sem það giörer að síßka nedan af rótunum; enn þar við er og so önnur nytseme: þesse nefnel. að þær sídr vaxe upp í niola. Aller sem hafa plantað maturter, serdeiles rætur, vita hve mikenn athuga það þarf að planta so að gánge rétt nidr, so fyrer þvílíkre plöntun, kann mádr varla að trúa ödrum enn siálfum sér; því mióste enden nedan á höfudrótinne, vill komaz við þá rótinne er þríngið ofaní holuna og beygiaz aptr uppá móte; enn það er á móte náttúrunne að rótin vaxe uppá móte. Nú, með því sídurætnar draga samt næringuna til sín, þá vex þar af niólin, þegar höfudrótin getr ei vaxið ofaní jordina; enn við þessu er ei so hætt þá styst er nedan af höfudrótinne; því þá er hægra að setia hana óbogna ofaní plöntunar holuna. Greinelegann grundvoll til þessa finna menn hiá **Niewetût**; enn um þetta sama má lesa í þeim **Occonomiska Journal** fyrer November Mánud 1757 Nr. 6. enn ecke rádleggr hann að skera grasið af.

§. 16

§. 16.

Sá sem vilde koma ser upp Hvann-stóde og giæte ei avdveldlega fræ fenged, þarf ei annad enn útvega sér hvannarót, sem vída fæst á fiollum og í eyium; flytia þá somu í pokaenda í mold heim til sín og planta, þá ber hún sídan árinu epter fræ og má þad brúka til útsáds, og verda þær ræktudu og tomdu rætur miklu stærre enn þær viltu og ótomdu.

## Cap. II.

### Um Korn.

§. 1.

Bygg og Hafrar eru þær sádtegunder, sem eg hefe giort mer mest ómak fyrer, og med þær hefer eg giort margar tilrauner. Í fyrstu feck eg ad sunnan líted af bygge sem þar hafde vaxed, ecke meira eñ komst í eitt Apothekara glas. Þessu bygge sáde eg í mínum Kálgarde vid nyrdre vegginn í einn reit, þar sem árid tilforna hafde vaxed grænkál, og eg uppskar aptr fyrst í September velbúed bygg, sem hafde fenged vel hardann og sterdann kiarna. Þessu

sáde eg næsta ár og feck eg þá miked strá og háa stavng, enn nær þvi avngvann kiarna. Eg hafde þá havstinu ádr úmbreitt mínum Kálgarde og lagdt hann edruvis, so ad nú var þad nýt, óbrúkud og offeit jørd, sem eg hafde í sád; og þetta ásamt óhentugre vedrátt má hafa vered orsokin, hvar fyrer nú luckadez midr enn fyrra árid. Sídan hefer eg einasta haft Sellands bygg til ad renna med. I þvi Danska og Norska Oeconomiska Magazine, sem og i Allgemeine Haushaltungs und Landwissenschaft, er margslags adferd kend til ad giøra kornid friósamara: margt af þessu hefer eg brúkad og þar med giørt smá tilravner á sama áre og í somu jørd, til ad bera þær saman og þar epter útvelia þá sem mer þætte best. Sumt af þessu hefr vel luckaz, enn þó, þá eg hefe reynt þad aptr árinu epter, hefr þad ei eins vel luckaz og sellz eg þvi á þad sem v. Justi skrifar í sínum Oeconomisku Havnkum útaf Oleo Nitri 2. Bande 4. Parte 1. Pánka. Þó hefr mer best

gediaz

gediaz ad því, sem sá Svenske Boye Cap. 26. §. 5. hefr fyrerskrifad. Enn aungre þeirre Friódgunar adferd (Friovirt) trúe eg, þar sem Saltpetr er tilhafdr, því þad er nú margreyndt, ad Saltpetr hiálpar til ad auka frostid, og þad er þó þad, sem ver hofum alltíd ad óttaz fyrer.

§. 2.

Eg vil her um̃ en̄ nú framar láta mína þánkaf liófe, því þad er víst þad vigtugasta hofud atride í vorre Íslendsku Jardarbrúkum, ad útfinna þad medol, sem epter ásigkomulage og kríngumstædum til vegar koma og útgiora þá naudsynlegu friódseme. Þad er almennelega halded, ad sú íslendska jord hafe nóga friódseme í ser, og hún, so sem hún nú er hrá og óbrúkud, se ofsfeit og hidsug til ad bera korn: þetta kann og satt ad vera á sumum stodum, serdeiles þar hún liggr undsr ís og snió hálft árid edr lengr; enn þar sem hún er, sem optast add og ber og iduglegre um̃breitíng underorpen af froste og þýdum, og af miklum regnum gegnumbleitez og útskolaz, þar ætla eg ad

ad hennar frióvseme se miked lítel. Dagleg reynsla sýnez og ad stadfesta þetta, þar vér þurfum ad kosta ollum þeim áburde, sem í odrum londum brúkaz til akra og korns túngunar, enn engid fær þar líted af; honum verdum ver, sege eg, ad kosta uppá vor tún, ef ver viljum fá hey handa kúm vorum. Það er ei heldr mogulegt ad vor jord hafe mikla frióseme, fyrer því ad hún er ad mestu lefte súr, sem medal annars má ráda af þeim ravda lit, sem hún vídast hvar hefr. Eg hefe reynt til epter Hr. Tulls fyrerskript, ad giora hana fríósamare med því, ad plægia og hárfa hana opt án þeß ad bera á hana; enn hún hefr ei annad þar vid giort enn mist sinn ravda lit, og umbreitz í hvítleitt dupt, og hefr þar vid orded enn nú fátækare af frióseme. Af þessu og odru hefer eg efad um ad vor íslendska jord hefde so mikla frióseme, sem henne er egnud, og komez akuryrkian nockurntíma rett í stand hiá oß, munu menn sanna þessa mína meiníng. Enn þá menn skoda þennann hlut á hina síduna, mega menn med forundran þacka þeim gódgiorande

og

og alvísa Gude, sem hefr þanndeg út- hlutad oß jardarinnar frióseme, þar ver hefum so lítenn sólar hita; þvi eg er viß um, ei sídr af margfaldre tilraun (Praxi) enn lærdóms reglum (Theoria) ad sá sem kynne ad skamta jardarinnar frióseme ept- er þeím sólar hita sem hann hefde, hañ munde miklu til vegar koma med kornafla, og í þessu synez sú milda Náttúra siálf ad retta oß so sem hendina. Þvi ofarlega í Dolunum, þar sem sniórinn liggr á hálft árid, og hvar jordin er meira frió- som, þar er og sem optaſt meire hite af sólinge. Þar á móte nedar, hvar jord- inn nær sionum, er meira add og ber fyr- er snió, og optaſt ófriósamare, þar er og sólar hitin optaſt minne.

§. 3.

Fyrer utan þetta hlýtr madr, bæde í tillite til jardarinnar og Áburdarins, ad huga sig um, hvada ávexter þad eru, sem hann vill ad jordin skule bera. Ege hún ad bera gras, þá er hún alldrei of- feit í siálfre sér, og hún þoler þá og líka bæde nýjann og miken myke-áburd,

þvi

Þvi þá er ei um̃ fræid ad giora, og sá være kannske hinn beste Búmadr, sem í þessu tilfelle visse ad færa ser vel í nyt, jardarinnar ofmíklu fitu og hidjugheit og ad slá grasid ádr enn fræid fære ad vaxa, og giæte hann þá med þvi móte sleged tvísvar sama voll á sama sumre, og feng-ed þridiúnge ef ei helmínge meira hey og miklu kroptugra og minne skada af óþerr-um underorped, þó þad ligge lenge á tún-inu. J þessu tilfelle tala eg ogso af eg-en reynslu. Þar á móte, sá sem vill stunda kornasla, hann hefr ei ad giora med hráa og hidsuga jord, allranínst þeg-ar sólarhitin svarar ei til jardarinnar frió-seme. Hann hefr ei heldr gott af nýjum og feitum myke-áburde, og þó kuña menn ei her um̃ ad dæma med fullre vissu, med-an ver erum ei lengra komner med vora akuryrkiu, og getum brúkad fullkomlega innlendskt korn til útsædes, eins og kum-en er nú orded hiá oß fullkomlega vant vid vora jord, vort lopt og vorn varma. Eg hefe reynt ad sá bygge í tvo blette og somu jord og eins tilbúa; sá eine lá rett flatr, og halladez eckert, enn þann añañ

let

lek eg hallaz á móte middags sólunne, so ad sólargeislarner skinu þar meir rettlínes á, og eg fann ad verkunin og á vöxturin var ólíkr, og epter þvi, sem eg hefe ad framan sagt um̃ jardarinnar situ vid sólarinnar hita samanboren, og ad þetta á ad svara hvad odru. Ad læra ad þeckia þetta, þar til þarf tíma og lánga reynslu; þó, sá sem grandgiæfelega athugade imsar grasa og urta tegunder og sette á sig hve fliótt þær í hvorium stad bera fræ, hann kynne þar af nockud ad dæma, hvorsu hver stadr fyrer sig være hentugr til kornafla; enn þar um̃ þore eg enn nú ecke reglr ad skrifa.

## §. 4.

Eg hefe í undangángande. 2, §. leidt í efa þá miklu frióseme, sem vorre íslendsku jord er egnud, og mín egen reynsla hefr kent mer, ad hún í sínu nátturlega og nærverande ásigkomulage ber eckert korn, án þeß ad hún med konst og kunnáttu giorez þar til hæf og hentug; eg undantek ræktar jord í kríng

um

um hús og hauga, sem ei er so til akra hentug. Í þeim 1. §. hefer eg ráðed frá Saltpetre og saltpeteriskum hlutum, bæde vegna frostsins, og so þeß vegna, ad meßtoll vor jord er súr og kold, og munde þvi Saltpeturs skyra vera henne meira til skada enn ábata: þad er þar fyrer Alkali (Lútar salt) og alkaliskar hluter, sem ega ad uppvekia í henne krapt og hræríng, auka hennar innvortes varma og med igáng (giærsing) adskilia hennar smá parta. Þó verdr madr ad velia þá Alkaliska hlute til áburdar, sem hafa situ í ser, so sem er allslags myke og tad. Her um vil eg ei margordare vera, því þad være ad skrifa þad uppaptr, sem adrer hafa her um greinelega skrifad, og líka er þar um houdlad í þeirre nýútkomnu **Naturtabook** og í **Einföldum Þavnkum um Akuryrkiuna at Íslande.** Einasta vil eg undantaka Motorfs jord, sem er miked súr og feit og þoler þvi fyrst í stad til áburdar fitulausa Alkaliska hlute, so sem ösku og Mergel, (sad er einslags Alkaliskr leir) og annad þeßháttar.

§. 5.

§. 5.

Eg hefe i undangángade 1. §. láted í lióſe, ad eg hefe miked litla trú á ollu Þvi í Akurÿrkiunne, ſem er konſtugt; Þvi Þó Þad luckez einuſinne, Þá miſluckaz Þad aptr tviſvar, og ſiálf Náttúrann ſÿnes líted ad hirda uṁ Þeſſa konſtugu adferd; hennar verkaner, ſo undrunarlegar ſem Þær annars eru, reynaz Þó alltíd miog einfaldar, og eg hefe alltíd halded Þad beſt ad epterfylgia hennar adferd Þad meſta eg hefe getad. Epter ad eg hafde giørt margar ónÿtes tilravner edr óviſſar, tók eg líted ſticke af túne mínu, ſem lá lagléga á móte morgun- og middags ſoliṅe og Þar fyrer utan halladez nockud á móte ſudavſtre. Þetta ſticke vár miked magsurt og hafde ei meira enn qvartels diúpa ſandblandada jord, hvar under ad var ſandr og ſmámol. Þetta ſticke let eg uppþæla med Þvi móte, ad eg let ſtínga Þad upp í ferkentudum hnavſum og ſnúa graſrótinne og leggia Þá alla aptr jafnt nidr. Ofaná Þeſſa uṁſnúnu hnavſa, let eg flytia nockud af gódre, gamallre og moldarblandinne Kúamyke, ſem eg let vel ſmátt

 ſundr

sundr melia og lítélega samanblanda vid moldina á þessum úmvendtu havsuim, þó án þeß ad hræra vid grasſverdinum. Í þetta sticke sáde eg tveggia ára gomlu Donsku bygge þann 10. Maii, blondudu med litlu af Hofrum. Fyrst í Septembr. skar eg upp aptr þetta korn, sem hafde þá fenged nockurnvegenn gódan kiarna; enn áxid á þvi var þó alt grænt, so þad var þó ei fullbúed. Þetta korn þurkade eg í vinde og hió oll oxin af og geymde so um vetrinn. Vorinu epter let eg flytia samslags áburd og fyrre á þetta sticke, og blanda vel samanvid moldina, og þó grasſvordrinn være nú ad mestu fúenn, þá let eg þó enn nú ecke vid honum hræra, Einn gódann Sólskins dag fyrst í Majo þurkade eg þavg ox, sem eg hafde um vetrinn geymt, so þreſkte eg þavg og sídan þann 12. Maii, sáde eg þessu korne í þetta so tilbúna sticke. Seinast í Augusto uppskar eg þad, aptr, medan þad enn nú hafde grænt ax og fór med þad eins og þad fyrrá. Þad þridia ár sáde eg þessu korne í odrum stad, þó í alteins magra og sandblandada jord, sem snere eins á móte

morg=

morgun og middags sólinne, enn þar í hafde eg sumre fyrer sett jardeple, og var þá jordin miked tødd og vel sundr pæld og barin, enn nú feck hún aungvann á-burd og litla advinslu. Her uppskar eg seinast í Augusto gott fullþroskad Bygg og Hafra, med hordum kiarna, sem eckert gaf epter því besta korne, sem eg hefe fenged utanlands frá. Eg medkenne ad þesse mín adferd er miked einfold og ímót annarra forskriftum; því þeir útheimta mikenn áburd á magra jord, og vilia ad hún skule fá mikla og góda advinnslu og þad útsáda korn vel hyliaz og nidrmildaz; enn eg er vanr ad giora þar þvert á móte, því eg læt ei ofaná þad útsáda korn meir enn hálfs þumlúngs þickva jord, edr þó eg nidrmilde þad, þá se eg til ad þad mesta kome ei yfer hálfs þumlúngs dypt í jordina. Þesse mín medferd held eg se aldeiles nátturleg, því þad fræ sem sáez af siálfu ser og af Nátturunne, þad fær aungvann áburd, aungva plægda jord og litla edr aungva ábreidu. Eg medkeñe ad í odrum kríngumstædum og þá menn hafa landvaned korn, þá geta menn ei

giört ser ofmiked ómak fyrer jardarinnar underbúninge, gódum áburde og gódu korinvåle; enn her var minn helste tilgángr ad fá korned til ad verda landvant. Sídan hefer eg árlega, med gódre ástundan, láted vinna ad þessum stickium, slutt þar á góda mold og gódann áburd, og fenged þar nú í 3. ár sæmelega gott korn. Enn med því þesse sticke eru ofurlitler bletter, sem liggia so laglega vid sólinne, þá hefer eg nú orded ad venia þad korn, sem í þeim hefr vaxed vid adra jord, sem snýr ecke eins vel vid sólinne.

§. 6.

Sá stadr hvar eg sídan hefe sád þessu korne, hallaz á móte vestre og liggr under háre Brecku, sem hindrar morgunsólarinnar gódu verkun. Þesse jord er nockud vándhæf; því fáe hún gódann áburd verdr hún feitare enn svare til sólarinnar hita, og án áburdar vill hún ecke drygia dád. Eitt sticke her af, let eg miked tedia og vel og djúpt uppæla og advinna og sette þar í jardeple, sem af ollum þeim ávoxtum, sem eg þecke, mest útkúga jord-

ina.

inar. Þad jardeple sem eg þar sette bis toludu mer víst ecke omaked, enn þad underbiuggu þó jordina so, ad byggid hefe fenged þar nockurn kiarna. Og þá eg hefe nú fared med þetta eins og hin fyrre, so hefer eg nú goda von um, ad þad fáe, nú í sumar fullkomenn og tímanlegann vøxt;*) þvi til forna hefr minn akur á Jónsmessu vered enn nú næstum þvi svartr, hvad hid sama Hr. Strøm vitnar um akra þeirra á Sunnmære; enn so hart sem þetta vor og sumar hefr vered med sieldum næturfrostum og solskine á dagann og regnalaust, þá var þó þetta sticke grænt orded þann 25. Júnii, eins og vant var í þvi fyrsta sticke, epter ad kornid var orded þar landvant.

§. 7.

Eg giæte enn nú framar útmálad þetta og sagt frá nockrum smáum tilraunum sem eg hefe giort, til dæmes: á nock-

 rum

*) Þetta bráz þó vegna þeirra miklu óvedra sem í fyrra komu strax um Hofuddagsleite. Í ár var þad skárra, enn luckadez þó ecke so vel, sem þad í fyrstunne sá út til.

rum kornplöñtum hefer eg afstyft allar
slduſtángirnar og láted einaſta midſtavngs
ina ſtanda, ſem þá hefr orded flíótare og
fenged fullkomed ax fyrr enn þad annad
korn, ſem helt ollum ſínum ſtavngum.
Eg hefe piackad jordina í kríngum ræt-
urnar á nockrum plontum og funded
þar af imiſlega verkun, þó beſta þá blítt
og gott ſólſkin hefr komed nockrum tíma
epter ad eg hefe piackad í kríngum ræt-
urnar, ſo ad ſólarinnar hite hefr nockud
ſvarad til þeirrar næríngar, ſem plontur-
nar drógu til ſín ígegnum þær nýu rætur.
Siá Cap. I. §. 14. Enn þeſſum ſmáu
tilravnum og handgripum ſleppe eg, bæde
þeß vegna ad þetta verde ſem fáordaſt og
ſtyttſt, og ſo er þar um af odrum ſkrif-
ad; eg þore ei heldr ad fyrerſkrifa od-
rum ad brúka mínar reglur og adferd;
og lokſins ætla eg ad leſendum og reyn-
endum ege alltíd ſiálfum nockud ad leifs-
az til ígrundunar og eptérþánka. Þá á-
lyktun þikez eg med nockurre viſſu giora
mega af mínum tilravnum, ad vid Akur-
yrkunnar innfærſlu og útbreidſlu í Js-
lande, ſe meſt under því komed ad fá

kornid

kornid til ad verda rett landvant og heima=aled. Pad er ei heldr nóg ad sá kornid landvaned á einum stad: eg hefe fenged líted korn frá Hlídarenda í Rángárvalla Sýslu, sem eg hefe sád og ecke þó betr med luckaz enn med Danskt korn. Já! af því, sem eg hefe nú sagt má siá, ad nockra fadma lengd á mille þeirra stada hvar sád er, kann ad giöra mikinn greinarmun. Enn vandhæfid er mest í fyrstunne: þegar kornid fyrst er ordid landvant vardar þad ei so miklu, þó stadirner ligge ei eins hentuglega edr seu ei allt eins ásigkomner.

§. 8.

Pad skylde þó vera mitt rád í fyrstunne ad brúka magrann, sendenn og jafnvel grýttann akur, sem liggr laglega á móte morgun og middags sólinne. Þvílíkur akur þoler ei mikla advinnslu og þarf heñar ei heldr med, því hañ í siálfum ser er nógu lavs og gisenn. Ad vorinu má hann tediaz nockud líted med gódre gamallre kúamyke, því sá uñsmúne grassvordr, sem smámsaman fúnar gefr korninu þá heutúgustu og mátulegustu næring. Sídan þá madr kemz lengra,

ætla eg best ad underbúa sinn kornakr med því ad planta í honum árinu ádr jardepie, og giæte madr so hitt á ad skamta áburdinn og jardarvalid epter sólarinnar hita, trúe eg ad manne munde sialdnar bregdaz kornvøxtr.

§. 9.

Sá sem ætlar ser ad sá og uppskera Korn, hann má vera forhugadr fyrer hentugu húse til ad þurka þad í. Þad miklu regn og vatnshrídar, sem her gánga so opt og iduglega úr. því kemr Hofuddagr, vildu miked hindra korn þurkinn úte á akrinum, og vorer hestar og siálfráde húsmale, sem þad bestu gerde, ef ei eru af steine, geta ei hindrad frá ad briótaz inn og stockva á gardin, þá hann í tóme má siá sig um á nóttunne, hann munde fliótt spilla því uppsetta korne, þo þad jafnvel være sett á Stavra. Þar fyrer verdr madr ad hafa hentugt hús med gódum gluggum á veggiunum, hvar madr gete lagt kornbindin inn á stiaka red vid red og lag vid lag so ópett ad vindrinn gete

vel

vel blásed á mille. Her inne má sídan þreskia kornid; annars er mín meiníng ad þad korn, sem er ætlad til útsædes, se best ad láta líggia í axinu um vetrinn og þreskia þad ei fyrr enn um vored, nockru ádr enn madr sáer þvi. Eg vil her ei framar tala um kornsins frekare medferd, ne þad tilfelle þá madr yrde ad uppskera þad medan þad stæde í grænu axe, þvi þad munde sialdan tilvilia þá kornid være orded rett landvant; og þá menn hefde gód þerrerhús være ei miog ad óttaz fyrer ad kornid næde ei af axinu. Ef Bændur giætu ad eins láted kornid vaxa, mundu þeir fyrr baka oxin í potte sínum og sídan mala þaug ásamt med korninu, heldr enn ad þeir ei nyttu ser sinn litla kornfeng. Þeir þar á móte, sem giætu meira korns afflad þeir giætu og meira kostad uppá þess þurkun, og lyst og ástundan geta nærre þvi komed ómøgulegum hlutum til leidar.

§. 10.

Eg hefe og reynt ad sá Rúge: Sumarsrúgr hefer ei viliad luckaz mer; ecke

heldr Vetrar-rúgr; þó þegar eg hefe sád þessum sídare tímanlega, þá hefr hann staded vél állann vetrinn, þá hann hefr leged ber og sniór hefr ei yferleged, enn sá sem hefr leged under snió hefr útdáed. Sá Rúgr, sem hefr vetrinn aflifad, hefr vaxed upp í miked háar stengur og bored miked stór ox enn avngvann kiarna. Orsok her til held eg hafe vered sú ad eg hefe ei vitad ad máta iordina epter Sólarinnar hita, og ætla þad vist ad ef eg hefde sád þvi í þvilíkann akur, sem eg hefe ádr umm byggid sagt, þá munde þad hafa betr luckaz. Þad er fullkomen mín meiníng ad alt vetrar-sád (þad er þad sem sád er sumrinu fyrer og ber ei fræ fyrr enn sumrinu epter) se mikln vissara fyrer oß heldr enn vorsád, þá vetrar-sád være fyrst ordod landvant. Eg hefe ei fenged vetrarrúg til ad giora nýa tilravn med; enn nú vænte eg þeß í ár og vænte ad stirkiaz í minne trú af einne luckulegre tilravn. Vetrar-rúge er annars best ad sá strax ad vorinu og má sá honum ásamt med bygge edr hofrum, og þá byggid edr hafrarnir eru uppskorner, stendr rúgrinn epter

eins

eins og annad gras; og hefr þá fengid mikln mestann stirk bæde til ad þola vetrinn, og til ad vaxa sumrinu epter.

§. 11.

Eg hefer ogso giort tilravn med Vetrar-hveite, sem luckadez mer vidlíka bágslega og Rúgrunn, og sumrinu epter gaf herlega stavng og stórt ax enn avngvann kiarna; alleinasta fáeinar plontur, sem eg um vored upptók og plantade uppi einn kletta gile, fengu nockurn enn þo miog rírann kiarna. I fyrra stadnum var jordinn offeit á móte solar hitanum, enn í þeim sídare uppe í gilinu var hún of mogr.

Þennann ríra og avma kiarna geymde eg þó, og sáde honum sumrinu epter, og hann tíngadez ogso og ox upp; enn vegna þeß ad eg fylgde ofmiked þeim útlendsku reglum og sáde offseint, so ad þetta Hveite feck ei tíma til ad rótfesta sig fullkomlega, og fá nóga krapta til ad þola veturinn, so dóu ræturnar ogso út. Þeße tilravn, þó hún misluckadez, hefr þó gefed mer nockra von um ad eg í odru

ru sinne mune geta lengra komez.

## Vidbæter.

§. 12.

Eg hefe í 1. §. geted um̃ Friódirt þá sem **Boye** fyrerskrifar: Hann segez taka klaufer og horn og láta nidurrkfa, so og skinnsnepla og þeßháttar; þetta segez hann uppleysa í sterkre lút, hana geium vér allgóda soded af fioru þánge. Þetta so uppleyst segez hann sióda þar til þad verdr límþickt, þá þetta kólnar hleypr þad saman; enn þá þad er velgt yfer elde renñr þad aptr í sundr. Þessu volgu segez hann dreifa yfer korned, so þad vokne og sídañ segez hann sá yfer þad gráu kalke, enn hóglega brendar skeliar og kudúngar smámalder, eru alteins góder og kalkid. Þetta segez hann giora tvisvar edr þrisvar og skylde látaz eitt dægr á mille; sídan er korninu nockud vindþurkudu útsád. Alt þad sem hann her brúkar er alkaliskt, og so mun þad oß optast betr reynaz enn þad sem er af Saltpetre. Vice=Logm. **E. Olafsson** hefr og so i sinne **Nat=urtabook** §. 20. kent ymeslega atferd

til

til þessa, enn varar þó við Saltpetre, þar sem jördin se súr.

§. 13.

Það er adferd sumra utanlands að setia kornbindininn á stafra til að þorna: þeir reka rá fasta ofank jördina og reisa upp með henne nedst 4 bindinne, sidan stínga þeir hinum þversum ofaná ráња þar til komen eru 15. og snúa öllum oxunum á móte sólinne. Menn kynnu og að búa ser til hiall að þurka kornid í, enn húsid er þó best, því það má ei einasta í því þurka heldr og til margra þarfa nýta.

## Cap. III.

### Um Kwmen.

§. 1.

Eg er í efa, hvört eg skule setia her Kúmen; ecke þar fyrer að eg ei vite að þesse ávöxtr hefr til forna vered framande hiá vß, og enn nú má hann kallaz framande fyrer flestum, þar hann vex einasta á vissum stodum: ei heldr þar

fyrer ad eg tosle uss þeß nytseme, enn þó hún hiá oß lítel se; heldr þar fyrer ad þesse ávoxtr er ordenn hiá oß so landvanr ad hann vex eins liúflega og ödrar innlendskar urter, sem alt af hafa hiá oß vaxed. Eg set Kúmen sídar enn korn, ecke þar fyrer ad eg ei trúe vitrum monnum í ödrum londum, sem halda Kúmen miklu ágóda meira enn korn, so sem Hr. von Justi vitnar í sínum Oeconomisku Skrifum, og sá Svenske Major Rósenstein seger í þeim Svensku Vídenskabers Academies Skrifum fyrer Octobr. 1744 ad vid Lund í Skáney koste tunnan altíd 18 Dale S. M. (þad eru 6. Rdr.) þegar þad kaupez af fyrstu hond, þad er þeim, sem siálfr hefr sád til þeß; enn þá þad kaupez af annarre edr þridiu, er þad helmínge dýrara. Enn eg set þad sídar enn korn af þvi ver ei vitum og kunnuske getum ei nýtt oß þad; þvi þo einhvor fenge so miked af þvi, þá visse hann ei hvad hann skylde af þvi giora

§. 2.

§. 2,

Þesse ávoxtr er orden so vanr vid vora jord og vort lopt, ad hvørsu gá-lavslega sem ad er fared vex hañ samt. Ad avstan er mer þad trúverdulega sagt, ád þegar fræid fellr nidr út uñ túnin í óplægda jord, so vex þad þó, og ad sláttumonnum þar se illa vid þad, því þegar þesse urt ber fræ, þá trenar hún og er þá slæm fyrer þunna liáe. Eg hefe til reynslu kastad nidr nockru kúm-ens fræe bæde í túne mínu og so út uñ haganu, og hefr þar af nockud uppa-komed. Eg hefe og kastad því út í þurra Móajord og þad vex allstadar þar sem sólin ecke brenner þad, þó þad se med minna móte; því þad vex þeß betr, sem þad hefr betre jord.

§. 3

Þad Kúmen, sem eg hefe sád, hefer eg fenged ad avstan frá Hlídarenda í Rángárvallar Sýßlu. Eg sáde Kúm-ene miked tímanlega uñ vored í þurra og magra jord í Kálgarde mínum. Þetta sticke, hvar eg sáde, var 150 ferkant-adar

adar áluer, og hafde einuſinne ádr ver-
ed tadt og ſídan brúkad til ad planta
Rónr í, þad lá vid ſydre hlidina á
Kálgardinum undan ſólinne. Af ødru
havſte þar frá teck eg á þvi 14. Potta
af gódu og velþroſkudu Kúmensfræe,
og ſídan hefer eg í ſamfeld 4. ár,
fenged árlega eins mikid á þeſſu ſticke,
án þeß ad ſá þar optar í, enn einu
ſinne.

§. 4.

Her af kynnu menn nú ad álykta
ad ſama rót bære fræ optar enn einu
ſinne; enn eg er þó heldr á **von
Juſti** og annarra meining, ſem neita
þvi, eg hefe grandgiæfelega ſkodad og
athugad hlutinn og ætla ad þad kome
af tveimur ødrum orſøkum ad þar vex
Kúmen í ſama ſticke nockr ár ſamfleitt,
þó ecke ſe til þeß ſád optar enn einu
ſinne. 1.) Þegar plønturnar, epter þad
fyrſta útſád, ſtanda of þett ſaman, þá
fær ein þeirra yferhønd og vex yfer
hinar. Hinar deya þar fyrer ecke, heldr
bída til þeß ſú fyrſta plantan hefr bor-
ed fræ, þá deyr hún og ecke einaſta

gefr

gefr hinum rúm til ad vaxa, heldr og fúnar hennar rót í jordunne og gefr hinum þá bestu næríng og þetta gengr so ár epter ár koll af kolle, þar til allar hafa fræ bored. 2.) Kemz madr ei hiá þvi, þá hann bídr til þeß þad mesta af fræinu er vel búed, ad nockud þá falle nidr, serdeiles þá upp er skored og þar af vaxa nýar plöntur. Hvort þetta varer nú ei lengr enn í 6. ár og fer sídan mínkande, sem sá Svenske Major Rosenstein seger, veit eg ecke. Nú er þad á fimta áre sídan eg sáde í þetta sticke í mínum Kálgarde, og enn nú vex Kúmenid þar eins vel og nockurn tíma fyrr.

§. 5.

Eg hefe giort fleire smá tilraoner og þar af smídad mer epterfylgiande reglur til ad afla Kúmens. Eg tek til þeß medallage góda jord, hana uppsýng eg og umsuý um vored edr snemma sumars, so ad havslinu er alt ógrese og grasrætur nockurnvegen funadar. Seint í Septembri ted eg hana med gomlum

áburde og mil og blanda hana vel. Um edr epter Mikelsmessu sáe eg í hana Kúmens fræinu. Þad giore eg þeß vegna ad þetta fræ vill liggia lenge nockud í jördinne ádr þad sprettr upp, so ad ef eg sere þvi ei fyrr enn um vorid, fenge ógresid tíma til ad rótfesta sig. Enn þá eg sáe þessu fræ ad haustinu og þad þickt, vegna þeirrar í næst fyrerfarande 4. §. tíundu orsakar, so kemr þad þeß tímanlegar og þéttara upp ad vorinu og kiæfer ógresid. Enn med þvi þesse urt þarf 2. ár til ad vaxa og bera fræ, þá hefe eg fyrsta vorid med járntinda hrífu lítelega rifed sticked upp og þar í sád Karsa og Kervele, sem þá hefr vel vaxed þad fyrsta ár og Kúmenid þad annad ár. Sá sem vilde giora meira af þessu og sá í stærra sticke enn þyrfte fyrer Karsa og Kervel, hann giæte sád þar bygge í. Epter ad eg hefe uppskored Kúmenid, sáe eg yfer sticked gódum, gomlum og mixed smátt moldum áburde af kúa-myke, sem þá hylr þad affallna fræ og kemr þeim eldre rótum yfer burda vel.

§. 6.

§. 6.

Adra minne nytsemi má hafa af Kúmene, ad brúka ræturnar med sama móte sem Gular- og Pastenak-rætur. Af blodunum edr grasinu má ogso á vor giora holla og hægelega suppu eins og kálsaup; þó held eg ei rádlegt ad skera morg blod af þeim plontum, sem ega ad bera fræ. Eg hefer og reynt ad láta slá Kúmenid eins og annad gras og láted þurka til vetrarfódurs, og gefed Kúm mínum, sem þar af miólka bæde mikla og góda miólk; enn þar til þarf frekare tilraun ad vita hvort slíkt betalar kostnadinn; þvi allar þær plontur sem þanneg eru afslegnar, enn mundu annars hafa fræ bored þad sama ár, þá deyia þær út.

## Vidbæter.

§. 7.

Þad er athugande um Kúmen, ad med þvi þad á ad standa í jordunne allann vetrinn, þá verdr ad sá þvi nockud diúpt, vel tveggia edr þriggia fíngra, þvi jordin kríngum ræturnar sígr, serdeiles ad vorinu þá klakin fer úr, og þá verdr sá

efste partr rótanna ber og er þeim þá hættara vid ad deyia út. Þad sama er umm Rúg og Hveite og allar þær plöntur, sem ega ad standa havstid út og vetrinn, þvi þó Rúgr og Hveite stande ei utan eiñ vetr í jordinnie, þá skóla havstregnin jordinne so frá rótunum ad þær verda berar og deyia, ef ei er nógu diúpt sád. Þó er Rúge þeim, sem sádr er strax á vorinu (Siá Cap. II. §. 10) ei so miog hætt, þvi bæde hefr hann vel rótfest sig og líka skýler grasid á honum nockud rótinne, so moldin getr ei eins þvætt frá henne. Eñ umm þær urter, sem ega ad bera fræ sama sumar og til þeirra er sád, er allt annad mál. (Siá Cap. II. §. 5.)

§. 8.

Madr má ei bída med Kúmens uppskeruna epter þvi ad þad se allt hvad med ödru búed, þvi þad sem er fyrst búed dettr þá af, sem mer hefr optast tilviliad. Major Rosenstein seger ad Kúmen skule uppskeraz þá her umm einn þridiúngr af þvi er fulbúen og móbrún ordenn; annar parturinn gulbrún og hinn þridi enn

nú græñ. Þó þad grœna kúmen náez ei vel af, þá skal breida stengurnar úti sólskin; þá verdr kúmenid búed og nær þvi eins gott og hitt, og næst þá avdveldlega af.

§. 9.

Kúmen á upp ad skeraz ad morgne til, medan þad er enn nú vott af náttdogginne, þvi þá fellr þad sídr af. Utanlands er sú adferd brúkud til ad ná af kúmens frœinu, ad staungunum er sleged ofan á sá barm og þá slæz frœid af og hrýtr ofaní sáinn, og er sídan breidt út á dúk edr eitt hvad annad sem er snodid og þurkad vid sól. Eg hefe láted striúka þad af staungunum med hendinne, þvi eg hefe ei haft meira eñ so ad eg hefe ei hirt uñ þar meira fyrer ad hafa.

§. 10.

Þad Kúmens frœ, sem madr ætlar til sædes, á ad sonnu ad vera þad besta, enn þó skal þad ei meira enn hreinlega vatns-þurka. Til útsædes er þad þvi betra sem þad er ýngra; þad sem skored er upp, snemma edr midt í Septembri, er

 best

best til útsædes um Mikelsmessu.

§. 11.

Þeir sem vildu rækta nockrar Kúmens rætur til matargiørdar, skyldu sá til þeirra snemma sumars, og planta þær í góda eun ei hidsuga jord vorinu epter, og láta qvartil mille hvorrar, ad álidnu sumre má fara ad brúka þær eins og gular= og pastínaku=rætur og taka þær upp ad haustinu til vetrar forda.

## Cap. IV.
## Um Kaal.

§. 1.

Eg ætla ad eg giøre ei órett ad setia Kál epter Korn og Kúmen; ecke þar fyrer ad eg ei vite, ad einn góðr Kálgardr kann ad nockru leite ad takaz til jafns vid korn og kumen hiá oß, sem lited vitum enn nú af korns og kúmens afla ad segia, serdeiles þá madr ber saman uppá=kostnad og nytseme af hvorutveggiu, vissu og óvissu; þvi Kál bregdz sialdan þá menn giøra ser nockurt ómak fyrer þvi. Enn

kálid

kálid set eg þeß vegna sídar, fyrer þvi ad þad er einasta einn viß time af árinu, nefnel: havstid og framan af vetrinum, sem Bændur gèta egenlega haft gagn af þvi. Orsok til þessa eru þav koldu vor og miklu frost, sem gánga jafnvel fram á sumar, so ad þad verdr sialdan plantad fyrr enn um Jónsmessu edr enn nú seina. Sú onnur og hin serlegasta orsok er skortr á hentugum húsum til ad geyma kálid í á veturnar, og þesse óhægd er hin mesta og vigtugasta í flestum hlutum, sem viddvíkia vorum búskap. Skortr á timbre er Islande skadlegre enn skortr á korne, og sá sem lete oß fá nóg af timbre fyrer hálfvirde, vid þad sem þad kostar utanlands, hann trúe eg ad giorde oß þar med meirâ gott, enn þó hann lete oß fá gnægd af korne, edr nockr þúsund þúsund í peníngum fyrer hálfvirde. Eg sege med gódum epterþánka **fyrer hálfvirde**; ei þad ad eg trúe ad slík hondlun kynne standaz; enn hitt er þánke minn ad vorar til lífs uppeldes navdsynlegustu vorur, so sem Fiskr, Smior, Savder, Ull, etc. mættu til helmínga nidrsetiaz


til

til ad ná jafnvigtinne í þeßháttar hönd-
lun; þvi eg er alltíd so miøg hrædde
vid þad, þá þær íslendsku vörur, sem
eru naudsynlegar til lífs uppeldes verda
dýrare.

§. 2.

Sá sem vill fá gott Kál hann
má hafa gott fræ. Eckert fræ getr hañ
betra fenged enn þad sem her er feng-
ed innanlands og þad er ei so vanda-
samt: sá sem hefr kálhús getr geymt
kálstofnana óskemda allann vetrinn, og
skal þá setia þá bestu út uñ vorid, þeg-
ar þad mestu frost eru úte, sem sialdan
er fyrr enn fyrst í Junio. Þeir
skulu setiaz í góda enn þó ótadda jörd,
sem er nockurnveginn þúng og föst, og í
hle fyrer miklum vedrum; þvi stofn-
arner vaxa 3. álna hátt edr meir, og
ef þeir standa í lausre jörd, þá detta þeir
uñ koll og ræturnar kippaz upp; mikel
vedr rífa þá ogso upp edr bríóta og
þvi verda þeir ad standa í hle, og all-
rabest fer ad setia þá lángs med kál-
gards veggnum, so þeir verde vid hañ
bundner. Atferdin til ad safna fræinu

er kend í þeirre nýu Naturtabook. Eg er vanr ad rífa af friódelgina og þurka þá vel á dúke, og geyma þá so til þeß unn vorid; þá læt eg þá úti í sólskin og ný þá sídan á mille handa miña, og detter þá allt, þad fullvaxna fræ úr þeim.

§. 3.

Sá sem vill fá snemvaxnar Kál-plontur, getr med morgu móte ad því farid. Hafe hann heima-alrd fræ, getr hañ sád því seint haustinu fyrer, þá þad kemr þeß fyrre upp vorinu epter og skemmez ógiarnan af vorkuldunn. Eg hefe ogso reynt þetta vid útlendskt fræ og fundid ad þad, sem þannveg liggr í jordunne allann vetrinn, kemr ei einasta fyrre upp, heldr og þoler frostid betr, enn þad fræ, sem meire varúd er vid hofd. Eg hefe og sád fræ í kisium, og hefr sæmelega luckaz. Eg hefe ogso lagt vermebed (drifbeck) af hestamyke, enn þad er bágt her hiá oß ad fá gódann hita í þá, þar eckert strá edr hálmr blandaz vid mykiuna; og sá hite sem í þá kemr fer aptr fliótt í burt, þó má þetta bæta nockud med smám hol-

um, serdeiles í midiunne, þegar í þær eru látner þeir hluter sem lenge halda hita í ser. Med þvi ad blanda nýu sióar-þánge med hestamyke, má giora so gódañ vermeded, sem hvør vill hafa, og brúk-ade eg opt þvilíkann vermeded medan eg bió nærre siónum. Sídan hefer eg brúk-ad einn serlegann vermeded, sem ei skal víkia fyrer odrúm af þeß kyns tilbúnade. Fiós vor eru vídast risliтel og þaken med torfe ofan á tródid edr raptana: á mínu fióse skar eg burt sticke úr þekinnne og lagde smá hrísltur ofaná raptana, og þar ofan á let eg medallage góda kálgards mold og þar í hefer eg sád, so snemma, sem eg hefe viliad og hefr þad lyckaz í besta máta. Sá sem vilde byggia fiós sitt vid hól jafnháann, edr vid sydre endan á fiósinu giora torfstafninn vel þickvann, hann giæte búed so til hólinn edr stafninn ad hann giæte lagt þar ofaná vermeded, og dreged hitan úr fiósinu þar inn und-er, og med hægre fyrerhofn og litlum kost-nade giørt í líking epter þeim vermeded, sem Cap. **M. Triewald** frá seger í þeim Svénsku **Videnskabers** Academies skrifum fyrer Julium 1739. §. 3.

§. 3.

Eg hefe eckert serlegt ad ámálga um kál-aſla, þvi eg geng í þvi epter þeim almenelegu kálgardsbókum, og so sem eg í þeim 1. Cap. hefe ſkrifad um Rótakál. Morgum er tídt ad vatna kálinu um midiann dag í miklum hita, og má þad so vera med þvi vatne, sem hefr fyrerſtaded og er far-ed ad volgna. Lángtum meira held eg af þvi ad vatna kvøld og morgna. Þad hefr mer tílviliad, ad kál af útlendſku frœ hefr hiá mer ſiúkt orded: þá hefer eg blandad gódre ſavdatedſlu og ſtundum kúamyke, ſaman vid vatnid og láted á-ſtanda eitt dægur, og vatnad ſídan og hefr þad vel tekez.

§. 4.

Eg hefe reynt ýmſar kálteguuder, af Krús- og Snid-kále, Ravdu-Savoi- og Hvítu-kále, sem alt hefr hiá mer vel vax-id, þó hefer eg aldrei ad ráde fenged hof-ud á þad hvíta kál. Salat, Spínat, Karſe, Korvel, Perſille, Salvia etc. hefr og ſæmelega vaxed, þá eg hefe haft gott frœ, enn ſiálfr hefer eg ei frœ ſafnad af þeſſu hinu ſídara. §. 5.

§. 5.

Fyrer utan þad gagn, sem menn kunna af kále ad hafa til matar, kunna menn ogso ad brúka þad til Fóodurs. Hænsn og annder þrífaz af þvi sæmelega; kýr-miolka vel og saudfenadr fitnar af þvi; þó kemz þad í aungvann samjofnud vid kálrætur.

§. 6.

Kál getr staded úte í gardinum fraḿ under Jól og ef frost og þýdur koma ei þvi optar til skiptes, þá skemmez þad ei stórum. Einn forstandigr búmadr getr nýtt fiestallt þad, sem í kálgardinum vex, jafnvel ogso ógresid edr arfann sem er reittr uppúr bedunum; þvi þá þad er þurkad er þad kroptugra enn annad hey, og þá þad er smásaxad og med jycke edr ödru þesshattar blandad, er þad nógu gott fyrer Hænsn og endur, og so munde þad og vera fyrer svín. Sá sem hefde miked af kále enn líted kálhús, hañ getr uñ havstid skored blodin af stockunum og saltad þad nidr i ílát til vetrar forda. Eg hefe láted giora þar af gravt og

og hella í stór ker, hvar hann hefr súrnad, og hefe sídan gefed þennann gravt kálfum þeim, sem eg hefe aled upp, og hefer eg þarvid mikla miólk sparad.

## Vidbæter.

§. 7.

Þad er miklu betra og ómissande þá madr vill fá fræ, ad skera af allar síðu stengurnar, serdeiles á róum og rótum, þvi upp af þeim spretta margar stánger, sem siá má, þegar búed er ad planta þær út aptr ad vorinu, þá spretta út alt í kríngum hofudid margar ángar, enn þá skal alla afskera utan þá sem eru í midiunne, þeir vaxa þá þess fliotar þá þeir einer nióta allrar nærfngarinnar; og bera og só fyrr fullroskeð fræ, sem og so er miklu best. Grænkál fær ei utan eina stavng og fleire káltegunder eru þessháttar, enn út úr þessare stavng spretta adrer minne legger, enn þá skal ad nedanverdu upp epter stavnginne afnema, enn kálbladed, sem hiá þeim stendr ofkert láta og ætla til fræs af toppnum á stavnginne.

Cap.

# Cap. V.
## Um̄ Jardeple.
### §. 1.

Þad mun mørgum synaz undarlegt og siálfum mer synez þad eins, ad eg set Jardeple epter Korn og Kál; þvi eg veit og hefe siálfr reynt ad þaug eru hinn gagnsamaste ávøxtr og ad þad hrós, sem adrer hafa uppá þad sett, er ei um̄ of. Enn fyrer þvi ad madr hlytr ad mæla hlutarins nytseme epter þvi, hve miked af þeim sama og hve hæglega kann ad útvegaz, so ad minnur gagnsamr ávøxtr, sem audveldlega kañ aflaz og yferfliótanlega, er meira verdr, enn hinn, sem líted fæz af med mikille fyrer hofn, þar fyrer set eg her jardeplin sídar; þvi eg er hræddr um̄ ad her hiá oß sprette þaug ei tøluverdt, fyrrenn kannske í fram̄ídinne. Jardeple eru miked kulvís ávøxtr og þola eckert frost, og þvilíks ávaxtar er torveldt ad orka hiá oß. Þaug útheimta miked góda jørd, og se hún ei, þá þarf til þeirra þeß, meire áburd af þeim allra bestá.

Af

Af þienlegre jörd til þeirra hofum ver ei miked og áburdinn vantar oß. J somu jörd þrífaz þavg ei optar eñ einu sinne samfleitt, hvar fyrer ad jördin hlýtr ad hvíla og tediaz ad nýu, og nær þó navmlega þvi fyrsta; og þesse þeirra náttúra mínkar miked þeirra verd hiá oß, sem hofum líted af umgirdtum og til útlendiskś sædis uppteknum jördum. Þad mikla ervide, sem jördin útheimtser, skule hún bera þennann ávöxt, vil eg ei so miög reikna, þvi hún betalar þad þá hún sídan er brúkud til kornsædes. Og loksins er þad torveldt ad geyma jardeplin óskemd uñ vetrinn.

§. 2.

Vilde eg fylgia straumnum, þá giæte eg spekiad mikid og giort alt audvelt. Enn þar eg hefe giort tilravner, eg trúe jafnmiklar og hvor annar, og þær hafa yferbevísad mig uñ hlutarins torveldne þá hlýtr Sýn ad gilda meira enn sogn og reynsla meira enn hugþótta vit. Þegar eg vilde giora álykrun af einne edr fáum tilravnum, þá giæte eg giört

giort mikeð af þessum áveyte. Eitt sticke í Kálgarðe mínum, sem var að stærð 48 ferskeyttar álner, let eg vel diúpt umgrafa og feck þar í eitt qvartel af jarðeplum. Eitt annað sticke hélmfinge minna eðr 24 ferskeyttar álner, sem var það besta í mínum Kálgarðe og lá lágleg̃, var meðallagé diúpt uppvælt og feck eg þar í eins mikeð nefnel. eitt qvartel, það verða herum̃ 145 tunnur á Tunnu=landinu eðr 14000 ferskeyttum álnum, og margt jarðeple vóg 7½ Lóð. Enn sama sinn let eg ündez-búa eitt annað sticke í túne mínu, sem var vel tuttugusiünnum so stórt; eg let þetta sticke upppæla, teðia með góðum gomlum áburðe, plægia og harfa. Þetta sticke hafðe áðr boreð bygg og var jafnvel offeitt til þeß í tillite til sólar-innar, hita og þö feck eg ei so mikeð á þessu sticke sem því fyrra. Eg hefe optar giort mer kostnað og erfiðe fyrer jarðeplaplontun, að eg epter øllum líkindum hefðe kunnað að vænta að fá yfer 40 tunnur; enn eg hefer enn nú alldrei fengeð 10, tunnur. Þar fyrer er

og

og verdr mitt ordtak í þessu tilfelle, þetta Virgilii.

- - - - laudato ingentia rura
Exiguum colito.

Eg veit ad sonnu af egen reynslu ad þad má nockru til leidar koma med osku, af hvorre á morgum bæum er miked fyrerliggiande safn. Madr getr og fenged oskuna med þvi móte ad skera mó og torf og brenna, jafnvel ad vid slíka adferd se epterþánkaverdt þad Hr. **Linnæus** skrifar í sinne **Skaneyar Reisu** pag. 241. Enn þar fyrer utan verdr þad spursmál, hvert þad se gagnlegt ad setia eina magra edr medallage feita jord í þá drift med osku, ad hún gete til gagns og ábata bored jardeple. Af lítelle tilraun, sem eg hefe til þess giort, efaz eg um þad. Jordin verdr þar vid so útsúgud ad hún kemz navnlega aptr í lag.

§. 3

Eingenn ætle ad eg med þessu vili ráda nockurn frá ad leggia sig epter jard-

 epla

epla feng, ei heldr hefr öll þesse torveld-ne hindrad mig þar frá. Nei! eg hefe funded allt of gódann smeck í þeim, ad gete láted nockud halda mer til baka. Eg vil segia frá hvoriar reglur af mínum til-raunum eg hefe smídad mer til ad afla þessa gagnsama ávaxtar. --- I myre einne, hvar eg læt skera mótorf, er miked af hálfsúenne grasjörd ofaná món-tim, sem fyrst verdr ad afridia. Þessa jörd med þeim molum sem af mónum falla læt eg færa þángad, sem eg ætla jardeplin ad planta, þar er þessu vel samanblandad med jerdinne, og liggr so eitt ár. Sídan ad vorinu ted eg þessa jörd med gódum gomlum áburde og blanda alt vel saman og diupt uppgref og mel-hún þoler þá og eitt sinn öſku áburd. Veg-na frosta og kulda er þessu sialdan afloked fyrr enn midt í Majo edr sídar, og opt má eg láta klakann uppsprengia so hann þidne þeß fliótar. Til ad ávinna tímañ legg eg jardeplin þett í eitt bed í Kál-gardinum, hvar þau fara ad gróa. Þeg-ar eg er búenn med áminst sticke, gref eg jardeplin upp, og planta þau þar í, og

gete

gete eg einu sinne edr optar vatnad þeim, er þad þeß betra. Þegar þad fara ad vaxa, dreife eg gódre mold yfer þad, hvar vid arfin nockud dempaz, enn þad vaxa þeß betr. Med þessum hætte ber eg mig ad, og sá sem vilde hann brúka, hann vona eg mune finna sig ánægdann og fá nocka urvegen ómaked betalad, þegar vedráttañ er ei þvi bágare. Og so vona eg ad hafa so um̃bætt þá jord, sem eg hefe þannveg underbúed, og blandad med mótorfsjords inne, so ad hún gete í nockur ár bored med ábata adra ávexte án stórvægs áburdar.

§. 4.

Eg held nær þvi allar jardartegunds er þienlegar til ad bera einusinne jardeple, jafnvel stífa Leirjord, þó útheimter hún serlega medferd. Eg giorde þar med litla tilraun, vegna þeß mer sýndez leiriñ feitr, og bar eg mig þannveg ad: eg tók líted stícke úti haganum, sem var af samanblöndudum gráleir vid møl, og upppælde þad hálfrar álnar diúpt. Þar i giorde eg holr, epter mínum tilgánge mátulegar, og lagde þar í jardeplin, og

 ofan=

ofaná þav kastade eg lavsre smárre mold, þar til holurnar urdu fullar. Jardeplin edr tubera, hofdu moldina til ad útbreida sig í; enn þær adrar rætur, urdu ad sækia sína næríng í leirinn, og hefr eingen ótodd jord gefed mer meira aptr enn þesse leir. Kálgards jord, sem er af gamallre rúst og veggia mold, hefr gefed mer mest aptr, og þar af var þad litla sticke 24 ál. ferskeyttra, sem bar eitt Qvartel af jardeplum §. 2. Þar væst reikna eg allar mylendur, enn þær útheimta úrtöku miked erfide, ádr enn þær verde rettskickadar fyrer jardeple, og þvi hefe eg úrvaled fyrskrifada adferd, ad blanda þá jord med mótorfs jord, sem ádr er giord lavs og mylden, med ad sá í hana róum.

## §. 5.

Sá sem getr aflad nockud toluverdt af jardeplum, hlýtr navdsynlega ad brúka eina gróf til ad geyma þavg í; enn sú grof, hlýtr þá navdsynlega ad gioraz iñi húsinu þar fólk er; edr í fiárhúsunum; þvi annars sleppa þav ei fyrer frostinu,

sem

sem er þeirra eydeleggiande óvinr. Sá af þeim Svenska Bergmeistara Hr. Bern-son fyrerskrifade máte, ad giora mel úr jardeplum, er eflaust sá beste, sem eg hefe lítelega reynt vid þad jardeple, sem eg hefe láted baka brauð af.

Eg vil annars her eckert tala um þeirra brúkun og nytseme, so sem ver hofum þetta vel kendt í þvi litla Skrife, sem Hr. **Trøjel** hefr útgefed.

## Vidbæter.

### §. 6.

J áminstu Hr. **Trøjels** Skrife, er kendt med þar uppmáludum kraka, ad rísa upp jordina kríngum plonturnar, og þetta er gott í tillite til arfa þeß sem vill vara. Vidlíka kenner Hr. **E. Olafsson** í sinne **Naturtabook** ad lypta plontunum, þó so ad ei ruglez rótarstadan, og þetta er gott þá þad er rett skiled. Eg sting med lempnum pále nockud lángt frá rótinne, ad ei snerte ærlin, enn þó so diúpt, ad vel náe ofanfyrer módur-rótina og lypte so hóglega upp, so ad þeir

þeir nýu endar á nærlugar rótunum slitne, so ad adrer fleire ángar aptr útvaxe, til ad draga ad ser meire næríng. Orsök og tilgángr er her allr hinn same, sem ádr er útskírdr Cap. 1. §. 2. og 14. Sídan kraka eg í kríng, epter Hr. Trøjels máta, og med hendunum þiappa upp med plontunne; og þó ei ad sídr er þad gott ad sá ogso nockurre gódre mold yfer, þá arfinn fer ad vaxa. Her til munde og aska afargód, þó eg hafe þad ei enn nú reynt. Þar sem menn geta svartann sand fenged, þá er hann og so her til gódr.

§. 7.

Studiosus Thoroddi hefr innsendt undervísun um þá adferd, sem Bergmeistare Hr. Bernson hefr brúkad til þeß ad giora mel af Jardeplum med þvi móte ad láta þad frióſa, hvor undervísun mer er af Háyfervoldunum feingen til ad auglýsaz, og er hennar helsta og naudsynlegasta intak þetta epterfylgiande.

Nefndr Bergmeistare giörde márgar tilraoner med þetta, enn allar lutu

ad

ad þvi; ad hann let jardeplin nockrum sinnum frióſa, og þodde þaug upp í vatne, kreyſte úr þeim vætuna og þurkade.

1.) Þurkade hann edr þvode vel af þeim alla mold, og ſette þaug úti þurra froſt í 2. dægur; tók þav ſídan iñ, og þá voru þav hord ſem ſteinn. Þeſſe froſnu eple þýdde hann upp í koldu vatne, og preſſade úr þeim alla vætu og vokva med lítelle tre-preſſu. Aptr let hann þav eins lenge frióſa, þýdde þav ſo upp i koldu vatne, ſem han kreyſte úr þeim mrd houdinne. Þridia ſinne let hann þav frióſa í 9. daga, þvi hann beid epter þídvidre, ſo þav þidnudu af ſiálfu ſer og þornudu; enn fyrer þvi honum leiddez ad bída lengur, tók hann þav inn, og var þá gott ad ſiá ad þav hofdu miked miſt af ſínum vokva; þvi í froſte þorna hlutirner ogſo. Hann lagde þavg á bord í heitu húſe, og epter ſem þav þidnudu, breidde hann þavg ſundur, þá þavg á einum dege urdu

 full=

fullþurr. Ein tunna edr 12½ Lpd. vogu, epter ad eplin voru þurr og ádr þav voru molud, 2. Lpd. 4. Pd. og 6. Lód. Þegar eplin voru þurr, voru þav soxud og molud, og vard melid af þessum so opt frosnu jardeplum, hvítara og betra til matargiørdar enn epter adrar hans tilraвner. Seinast voru þav moludu eple sigtud, og urdu þá himnurnar epter í sigtinu.

2.) Hr. Bernsson reynde med litlu af eplum, ad láta þav liggia so lenge þar til þav þornudu af siálfu ser, epter ad hann hafde láted þav þrisvar, frióſa í sterku froste, og þrisvar uppþídna í koldu vatne, og kreyste hvort sinn úr þeim vætuna med hondiune, og þetta luckadez og so vel.

Þetta mel, sem þannveg er tilbúed, hefr hinn þægelegasta smeck í allre matargiord, bæde gravtum og bravde, og má brúka med því hveite- rúg- bygg- hafra- og

og ertnasmel, og giøra af kokur, sem hiá oß er sidur, og má þær geyma alts eins vel og þær sem bakadar eru af einusaman rúgmele.

Fylgiande reglur má framar athuga.

1.) Himnuna þarf ei af jardeplunum taka, þvi hún verdr epter í sigtinu.

2.) Þá þaug eru þýdd í vatninu, skal kered vera helmínge stærra, enn þaug eru mikel og hræra í medan þaug eru ad þidna, enn þó mest seinast.

3.) Þad er nóg ad láta jardeplin einusinne frióſa og uppþidna í vatne, þó verdr melid þeß betra og hvíts ara, sem þad er optar giort.

4.) Medalmáta varme er bestr til ad þurka jardeple, og mundum ver verda ad giora þad í eldgongnum vorum; þó má líted eitt þurka í heitu húse.

5.) Handsqvarner gefa ei so smátt mel, so sem Vatns- og Vinds-minlur.

6.) Jardeple til matar ætlud, mega liggia í þurru húse frosiñ allañ vetrinn, og má af þeim taka til matar epter þorfum. Þetta er nú þad nauðsynlegasta ágrip af þeirre undervísun, sem Mr. **Thoroddí** hefr her um gefed epter Hr. **Bernson.**

§ 8.

Mr. **Thoroddí** advarar ad skera ei jardeplin sem plantaz ega sundr, þvi þau vaxe þá ei so vel. Þetta kann vera, þar sem jord er feit og nógr sólarhite. Enn þar sem jordinn er megr þar hefur hún ei vid ad fæda margar rætr, enn ræturnar vaxa þvi fleire, sem fleire eru augu á jardeplinu.

Hann seger ad þau smáu jardeple sen ei góð til plontunar, þvi þau hafe ei fullkomenn friófgunar krapt; eñ þær medalmáta stóru eru fullgódar,

Þær

Þær stædstu seu þær bestu; enn þá misse madr ofmiked frá matargiørdinne.

Hann seger, ad feita jord þurfe eihanda jardeplum; enn ad medalmáta og sendin jord se fullgód, einasta ad hún se lavs og vel plægd.

# Cap. VI.
## Um Líin og Hanp.
### §. 1.

Med Línasla hefer eg giørt nockrar smá tilravner, og funded ad hann vex allvel; enn þar eg merkte, ad þad útheimte miked góda jord og þann besta áburd, hefer eg hætt þar vid, þar eg enn nú ecke er komen so lángt, ad eg mege missa góda jord og gódann áburd, frá odrum ávoxtum, sem eg held nytsamlegre, og gott fræ er torveldt ad fá, og þvi hefer eg slept þessu. So miked synez mer ad eg hafe reynt, ad þar er eingenn ábate vid, ad sá fræinu þikt, og fellz þvi á þad sem eg hefe lesed her um í Addresse Comptoirets Oeconomiske Tidender fyrer

árid

árid 1767. Nr. 38. Fáe eg aptr gott Línfræ, vil eg reyna ad sá þvi, í þá í fyrra Cap. §. 3. umtöludu mórofs blondudu jord, epter ad hún hefr bored jardepte, þvi eg held slíka jord hentuga fyrer línsád.

§. 2.

Eg hefer ogsó reynt einusinne med Hampsád, sem ogso nockurnvegen lyckadez, enn vegna ádr taldrar orsakar let ad vera og af einne tilraun get eg eckert víst ályktad.

§. 3.

Sú stóra og litla Brennenetla, er med þvi móte komen inn í minn Kálgard frá Danmörk og Norege, ad eg eitt sinn feck nockrar Fyruplöntur frá Norege, og ödru sinne nockrar Treplöntur frá Danmörk. Sú stóra Brennenetla vex árlega af somu rót, enn breider sig ecke út. Hvor er annarre lík, utan ad hún frá Norvege hefr nockud hardare og raudare stavng, enn sú frá Danmörk er linare og liósare. Eg hefe enn nú ei athugad hvort þær bera fullþroskad fræ. Enn sú litla

netla,

netla, sem einasta var frá Danmørk var árlegr ávoxtur, og útbreidde sig so sterkt, ad eg átte bágt med ad uppræta hana aptr. Annars vex bæde sú stóra og litla Brennenetla vída villt hiá oss, og þvi undrar mig ad eg ei finn hana í Hr. **Kønings** Flora Islandica, bak vid Hr. **E. Olafssonar Reisuskrif.**

## Vidbæter.

§. 4.

Eg hefe um Lín, sem ver nú almennast køllum Hør, og um Hanp so fáordr vered, þvi eg þóttez ofsíted reynt hafa til ad geta þar um margt skrifad, og þvi hefr þad **Kongl. Landhusholdnings Selskab** serilage tilmælz, ad eg utskírde þad nockud greinelegar. Ver høfum þó her um á Prent útkomnar þriár undervísaner, nefnel. í Hr. **Olafs Olafssonar Maturtabook, í Einføldum þavnkum um Akuryrkiu á Islande.** Enn þó þetta se allvel skrifad, þá er þad þo ei grundvallad á egen reynslu her innanlands. Hr. **E. Olafssonar Maturtabook,**

er hér um̃ ofsáð, enn mun þó helst á egen og innanlands reynslu grundvollud.

Til þeirrar undervísunar, sem þess-er gódu menn hafa gefed, hefe eg ei mik-ed ad leggia, nema ef þad skylde vera þetta: ad já sem vilde afla fræs af Líne, hann munde verda ad velia þar til temp-rada og mátulega feita jord, sem svarade sólarhitanum. Þá eg hefe reynt til vid Lín, hefr þad vaxid 1. álnar hátt og þar yfer, sem utanlands þiker sæmelegr voxtr; enn þad komz ei leingra enn í blómstr, og gaf eckert fræ. Þad Lín þar á móte, sem menn hirdtu ei um̃ fræ af, þoler ótamda og feita jord, og epter sumra meiníng, temur vel þá somu til ad bera annarslags sád.

## §. 5.

Eg vil her vid bæta, epter **v. Justi Neue Wahrheiten** II. **St.** VI. þvi helsta inntake af þeirre Adferd, sem þeir Fronsku Línvefarar í Slesvík brúka til ad fá fínt og lángt Lín. Gráa og nockud sendna jord, tedia þeir med góð=

góðum velgierðum áburde, og giöra i aflánga reite, tveggia, edr hálfrar þridiu álnar breida og sá þar jafnt og mátulega þiett i fræinu, þá þad er vaxed qvartels hátt, eru uppsettar 2. álna lángar hríslur edr qvister, spannarlángt hvor frá ödrum, línstaungunum til skióls og stirktar. Og þessum qvistum eignar hann mest giæde og lengd þess líns, sem þeir þar afla.

§. 6.

Vidlíka adferd segez sá Svendske Boye Cap. 28. §. 8. brúka. Hann segez vilia letta og diúpa jörd, og þess fugtugre hún se, þess betre se hún: Kierjörd, seger hann, se allra best, þá hún se vel groftud. Jörden á ad marg plægiaz og atvinnaz, og hreinsaz af öllum grasrótum. Þá búed er ad sá fræinu, á þad tvisar ad harfaz, og sídan þar yfer breidaz smámulen geita edr fiártedsla. Þá Línid er vaxid qvartels hátt, skal þad hreinsaz af öllu ógrese, og underems nidursiíngaz hælar med klofa í efra endanum, hálfrar ál-

nar

nar háer, þverspýtr ad leggiaz mille þeirra þvert og endelángt, sem hindra ad línid leggz ei útaf.

# Cap. VII.
## Um Toobak.
### §. 1.

Eg veit ei hvort eg á ad telia þenn-aun Avoxt medal þeirra nytsamlegu, þó hegómaháttr vor hafe giort hann navdsynlegan; enn fyrer þvi ad eg tvisvar hefe reynt til vid hann, vil eg láta hann og medfylgia. Vid Tóbak hefer eg hondlad eins og vid Kál, og sád þvi snemma í vermebed, (drifbeck) og plantad þad sídan í mínum Kálgarde. Þad hefr hiá mer fenged góda iord og góda umhirding, og hefr þad þá nockud vaxid, þó hefer eg ecke getad fenged fræ af þvi. Annars hefer eg fylgt þeirre forskrift, sem Hr. O. Deckberg hefr útgefed í Stockholm 1752. og eg trúe, ad þad gete bæde vaxed og fullþroskaz á hentugum stad, hvar sólarinn

arinnar hite svarade nockurnvegen til jard-arinnar situ, sem þeße ávoxtr mikla útheimter.

# Cap. VIII.
## Um Fyru- og Grene-tre.
### §. 1.

Fyrer þvi eg nú af egen reynslu veit ad bæde Fyra og Grene getr vaxed her hiá oß, so hefde eg átt ad setia þad med þeim fyrstu; (Cap. 4. §. 1.) enn þad má einu gilda. Enn þar menn híngad til hafa efad ad slikr triávidr giæte her hiá oß tíngaz, þar allar þær tilraVner, sem þar med eru giordar, þad eg veit, hafa mislyckaz, þá hefer eg þar fyrer sett Fyru og Grene seinast, so sem óvissa ávexte.

### §. 2.

Mer eru þesser ávexter þó alls ecke óvisser. Fyrer 4. árum, nefnel. árid 1773. feck eg 2. grenetoppa (Strobilos Pini abietis) hiá Hans Há-Velborenh. Hr Stifts-Amtmanne Thodal, þar i fañ eg nockra kiarna, hvorium eg þó

ecke sáde í kálgarde mínum edr i dírkada og tadda jörd, heldr uppe í mille nockurra hárra kletta í brennande móa jörd og móte sólunne: Þetta giörde eg so affrañ og þvert á móte þvi, sem eg trúe ad vera ætte, þar eg se af Linnæi Flora Svecica ad þetta tre vex á deiglendum stødum. Enn þennann stad uppe á mille klettanna valgde eg þar fyrer, ad hann var nockud afsídes og frá øllum yfergánge. Af þeim fám kiornum, sem eg sáde uppkomu einasta tveir teinar, sem uxu mikid líted þad fyrsta sumar. Um vetriñ epter miste eg þann annann, af þvi ad bláfuvatnid hafde skolad burtu jordunne frá rótinne. Hinn mátte betr, enn var þó nær yferkomin um sumarid; eg visse ei af hvoriu, fyrr enn eg fór ad hyga, ad þar sem þesse planta vex í skógunum og fyrer utan alla konst, þar vex hún í skugga, og þá hún feck hann hiá mer, tíngadez hún betr, þó miked líted og lángsamt fyrr enn nú í ár. Þad er ad sönu liklegt ad þesse ávøxtr, eins og flester adrer, tíngez í fyrstunne seinlega, enn jordinn hvar þesse planta stód, var og mik-

ed

ed mogr. Eg hefer opt hugad ad flytja hana annarstadar, enn mer hefr þótt ofvænt um hana til þeß ad eg þyrde þad ad voga, og Vor Stifts-Amtmadr hefr rádet mer til ad láta hana standa kiurra. Nú í vore var, gróf eg kríngum hana rennu, og let þar í nockud af gamalle kúamyke, og so hefer eg stundum vatnad henne, og hefr hún nú 1½. Mánude, nefnel. Majo og Júlio, vaxed meira enn á heilu sumre ádr.

§. 3.

Med Grene hefer eg ecke getad giort fleire tilraunner, þvi eg hefer ei getad fenged fræid. J fyrra sende þad Hálofleg Rentu- samt General-Told Kammer Fyrurværre (Summitates Pini silvestris) til Hr. Stift-Amtmannsins, hvar af eg hefer fenged nockud, og hefe sád fræinu nú á umlidnu vore á ymsum stodum, bæde í tadda og ótadda jord. Þvi sem eg sáde uppi mille klettanna, þar sem greneplantan vex, þad kom fyrst upp, hvar eg hefe bued þvi til skugga. Eg let hlada í kríngum líten

 en

en affkima í Kálgarde mínum, hvar eg let uppgrafa jordina 2. álna díupt, og lagde góda jord nedst, enn hina jordina blandade eg med gódre myke og sáde þar í, og þad kemr og vel upp, epter sem þad hefr meire edr minne sólarinnar hita. Þar sem plonturnar koma of þett upp, þar tek eg nockrar upp, strax sem þær eru vikugamlar og set þær annarstadar, og þær vaxa eins og þær alldrei hefdu verid úr stad hrærdar og ser eckert á. Eg hefer og sett fyrútyppin heil nidr, enn þeirra þarf lengr ad bída. Eg hefer fenged 2. skrifadar Undervísaner um þad, hvorsu Grene og Fyru ege upp ad koma: sú Undervísun sem eg hefe þar um lesed í þvi so kallada, **Bibliothek for Nyttige Skrifter** fyrer 1772. hefr mer best gediaz; og af þvi, sem eg hefe reynt um grenid og ádr er sagdt, efa eg ei ad þad mune og lyckaz med Fyruna, sem epter forskriftunum sýnez sídr vidqvæm enn Grenid.

§. 4.

§. 4.

Eg vil her eckert tala um adrar Triáplantaner, hvar af eg hefer fenged ymsar tegunder frá Danmørk, og eitt sinn feck eg frá Norege 4. lítel Fyrustre; enn allar þessar tegunder eru útdáudar, fyrer utan Hybenþyrner, sem ad sonnu lifer, enn þó burtfrýs á hvørium vetre þad sem stendr upp úr sniónum. Hvørnen þad vill nú lyckaz, sem eg sáde á umlidnu vore af Eplakiørnum, Hybenþyrner, Robinia caragana & acacia siberica er enn óvíst; þvi þó þad uppkomma siáe enn nú vel út, þá verdr þó eckert víst þar af ályktad. Þad er annars miked liklegt ad fræ, sem her sáez utanlands frá, lyckez betr, enn Plontur sem fáz utanlands frá og her nidursetiaz.

## Vidbæter.

§. 5.

Med þvi ad þad Kongl. Told-Kammer sorgar þeim fyrer Grenetoppum og Fyrutoppum, sem þar med vilia giora tilravn, og af Fyrutoppum er mik-

ed hiá mer fyrerliggiande, ef nockr vilde girnaz, þvi þetta fræ medan þad liggr í sínum hulstrum má geyma í 7. ár edr lengr, þá vil eg her frekare upplýsing gefa, sem eg hefe hiá ødrum lesed.

Sú Fyrutegund sem Norsker kalla **Al-fyru** enn stundum **Malm-fyru** er sú besta af øllum, fræid verdr fullroskod í Februario edr fyrst í Martio. Topparner á **Grenetriænum**, sem Norsker kalla **Kongla**, eru so storer ad varla edr ecke verdr einn falinn í hende sinne; hann er hnøttóttr, aflángr, uppmiór, med skelium edr hreistre allt í kríng, og undir hvørre skiel, (under sumum er eckert og sídst þeim nedstu) liggia 2. frækorn, og hefr hvørt af þeim eins og flugu væng, so ad í hvøssu vedre kann þad ad fiúka lángar leider. Á þessum toppum eru skeliarnar so opnar ad þá þeir eru lagder í sólarhita og sídan hrister og sleged vid, dettr miked af fræinu út; med knífe má leysa hvøria skel frá og taka so fræid. Á Fyrutoppunum, sem eru miklu minne, vidlíka og kríu egg, eru skeliarnar so saman-

grónar ad ei siáz fyrrenn toppinn eru bøkud vid eld, þá flisia skeliarnar sig frá, og er best ad kreista toppin hóglega med taung, og dettr þá fræid útúr; enn so, ad eckert verde epter er best ad taka hvoria skel frá annare, og taka fræid sem epter hefr orded.

§. 6.

Bæde Grene og Fyra vaxa þest á hálendum í þurre og miked sandblendne Móajørd; þó þola þau og so goda og friosama jørd, þvi se jørdin megur er betra ad tedia hana med gódre gamallre og velmuldre Kúa Myke. Sólarhite mikell er þessum triátegundum, serdeiles í fyrstunne, miøg óhollr, og þvi er best ad velia þeim stad í hle fyrer sólar hitanum á móte avstre edr avstnordre. Grene segia sumer best vaxe í fiallshlídum á móte avstre edr sudavstre.

§. 7.

Þar vara kunnuger vid ad planta þessar triátegunder í rød, þvi þær vaxe miklu betr reglulavst settar; og þó mer

þætte þetta undarlegt, hefr þó alldrei neitt uppkomed af þeim frækornum, sem eg hefe sett í rød. Fræinu skal sá í blæja logne, vegna þeirra vængia, sem eg hefer ádrnefnt, strax um vored undereins og menn sá ødru fræe í ádr áminsta jørd, og kemr þad upp á hálfsmánadar freste. Kome plønturnar ofþett upp so ad ei se 4. edr 5. þumlúnga mille hvorar, þá skal taka nockrar upp um midsumars bil og setia annarstadar. Í miklum þurkum fer betr ad vatna plontunum, þó med mestu varúd, ad moldin skolez ei frá rótunum.

§. 8.

Þad er siálfsagt ad peníngr eingiñ má þar yfergánga hvar þessu er sád, enn fyrerskriftirnar útheimta ogso, ad þeim í förstune se skýlt fyrer hørdum nordanvindum. Best fer ad sólin skíne einasta á toppinn á plontunum, þvi þá vaxa þær best og qvister spretta þá sídr út úr leggnum. Þegar plonturnar hafa soleides staded eitt ár, vilia sumer um̃planta þær ad vorinu, med so mikelle mold sem verdr

haldeð

halded vid rótina, og segia ad þesse vor plöntun lyckez betr enn havstplöntun. Adrer vilia ei um̃planta fyrr enn epter 2. edr 3. ár og þad ad havstinu, jáfnvel ei fyrr enn jord er farin ad friósa um̃ ræturnar, so ad hún þeß hæglegar fylge med þeim. Holan, þar sem plantan á í ad setiaz, á ad vera ádr tilbúenn, og plantan þar í rett upp setiaz og moldin vel í kríngum ræturnar trodaz. Þeß yngre sem þessar triáteguuder eru þá þær um̃plantaz, þvi fyrre taka þær vextinum. Enn seu þær ei fyrr um̃plantadar enn þær eru stórar ordnar þarf ad setia spítu fasta í jordiñe úpp med þeim til studníngs, sem þær ega vid ad bindaz. Þær ega alteins ad snúa epter um̃plöntunina og þær snern ádr, so ad sú sídan, sem ádr snere á móte sudre, snúe epter um̃plöntunina eins á móte sudre. Lítel hæd skal verda þar sem þær eru nidrsettar, so ad vatnid stande ei í kríngum legginn, ne þar frióse; Þó hefr mín litla Greneplanta eittsinn staded í snió og klaka fram̃ under Jónsmessu og þó lifad. Enn med þvi moldin epter

 um̃-

umplontunina vill sîga, þá verdr þar meire mold ad láta, so ad sú únga planta stande í hid minsta allrîd eins diúpt og í fyrstu. Þad sem er plantad um vor, verdr ad vatnaz einusinne edr optar epter umplantanina. Sumer vilia setia þessar plontur 4. fet hvoria frá annarre, og so epter því sem þær vaxa og þreyngez um þær, ad hoggva smámsaman nockrar upp, fyrst innann úr midiunne og so út ad. Adrer vilia láta á mille hvorrar plontu 5. edr 6. álner, og þarf þá ei ad þynna med því ad hoggva innanúr. Enn þó sá fyrre mátinn, se kostnadar meire, þá mun hann oß þó betre fyrer því ad ver hofum aungvann underskóg til skióls vid þad uppvaxande tre.

## §. 9.

Þegar búed er ad planta, þarf ad halda þeim úngu triám hreinum frá stofngreinum. Hr. Gunnerus í Flora Norvegia varar vid ad skera qvistina af triánum medan þaug eru miog úng. Þá þaug eru 5 edr 6. ára segia sumer ad byria skule med ad nema qvistina af, þá

ned=

nedsstu annad hvort ár á hvoriu tre, og striúka um̃ sárid med kúa myke. Ad=rer segia ad þetta skule gioraz í Sept. ember og ad qvistirner skule afnemaz rett víd legginn, og ad þá seti qvodann sig í sárid og storkne vid. þad ad vedr=áttinn er þá farin ad kólna. Enn þessar sködgreiner skal miog spart burt=taka; þvi so sem ádr er sagt, þá eru blød og greiner øllum ávoxtum ómiss=andc. J. 5 edr 6. ár epter um̃plont-unina vaxa þaug ungu tre miked líted, þó taka þau þeß fyrre vextinum sem þaug eru yngre um̃plontud og med meire jord um rótina. Eckert skadar þad þó líng og annad gróe þar, sem tren eru plontud, ef þad ad eins ná hreinlega uppúr med toppinn; þvi þetta líng og gras skýler þeim vid Sólarhitanum og heldr jordunne vakre.

## Alyktun.

Eg hefe þá láted þad uppe, sem eg hefe siálfr reynt um nockra framande Avexte, sem eg hefe giort tilraun med hiá mer, og sem eru miked nytsamleg=

er

er í Íslande; ecke so miked í þeirre meiníng ad vinna til Lavna med þessu litla skrife, því eg hefe funded nógu mikenn ordugleika og torveldne, sem einn annar, sem hefde til Lavna ætlad, hefde kannske ecke giordt fullt so miked úr; eg hefer ogso genged útaf almenníngs vege, serdeiles hvad jardeplunum vidvíkr, og þad eru líka marger ávexter, sem mig vantar enn nú ad reyna; enn heldr hefer eg þetta skrifad, ef eg kynne ad vera nockrum til vilia edr gagns med því, sem mín óhentuga afstada og óhæga ásigkomulag, hefr neydt mig til ad reyna og uppfinna, sem eg hefe frekar áviked í **Underbwningnum** ad framanverdu. Kynne þar nockud ad finnaz í þessu mínu litla erfide, sem mætte þykia nýtande og verdt ad leggiaz til þeß Góds, sem adrer hafa framfært edr kunna ad innkoma med, þætte mer vænt um.